hefde verid i Bøduls Høndum, þvi eg Ottadest ad ef hañ þad visse, kyñe hañ ad faa Audstygd aa mier: Eñ þa vid høfdum dvalest i Verona nockra Stund, inte eg hønum fraa øllu eins og var.

## XXIX. Cap.

### Gustav fær Saar aa Vinstra Handleggeñ, Læknast, fer til Mantua.

Marqvis reindest mier so vel, ad eg valla hefe funded hañs Lijka i Verølldeñe: Ey villde hañ taka vid þvi sem epter var af Gull-Pen ingunum, er hañ skillde mier epter i Brixen, helldur bad mig behallda þeim, og kaupa fyre þa hvad eg villde. Sijdañ ferdudust vid til Mantua, og tøfdum þar Atta Daga. Vid gistum i einu Verts-Hwse hiaa Frønskum Kaupinañe sem hiet Chimoy, og var sæddur i Blois, eñ hafde gypt sig eiñe Silke-Vefara Doottur fyre Fim Arum, og var i miklu Afhallde. Kona hañs var hønum ei so trw sem skyllde. Þad bar til eitt Siñ i hañs Hwse, medañ vid þar vorum, ad þar var Officere eiñ sem lagdest aa Hüge vid hana: Hañ Keypte ad heñe nockud af Silke-Tøye, fyre Tuttugu Spanska Duplones, eñ Chimoy var ecke sialfur heima. Officereñ betalade þetta strax, eñ hvert hañ geørde Kaup þesse af Hendingu edur Asetninge, veit eg Ogeørla, þo hid sijdara sie lijklegra. Þegar hañ afhendte heñe Betalingeñ, Opeñberade hañ heñe siñ Kiærleika, og villde koma heñe til vid sig. Hun took þad upp i Gamne, og hafde hañ af sier med Kurteyse: So hañ foor Erendeslaus i þad Siñ, og unde þvi illa, kom þo aptur Añañ Dageñ, og aanijade sitt fyrra Erende. Med þvi Mons. Chimoy var leinge i burtu, gaf hañ heñe Tækefære ad lifa og laata sem hun sialf villde. Eitt Kvølld let hun kalla aa Officerañ til sijn, og sagde ockur Marqvis, ad eiñ Madur munde koma til sijn, hiaa hverium hun hefde ad heimta Peninga, eñ hañ villde ecke gialld, bad þvi ad vid

hiaalp-

Hialpudum sier, og kæmum hönum til ad geora sier good Skil: Ockar Herberge var nærst Stofuñe. Officereñ kom epter Aftale, og leitade eñ Lags vid hana, eñ hun foor undañ: Hañ so sem ækafur Venus Riddare, villde hafa sitt fram med Vallde. Hun gaf ockur þa Teikn, so vid komum bæder i Stofuna, og spurdum hvad þar være um ad vera, ad hun hefde hlioodad? Hun svarade: Ad þesse Lumpni-Karl vill smæna mig, fyre þad eg hefe krasest Skulldar hiæ hönum. Hun hafde sied epter Kaupnum, og þooktest lijda Höllun, eñ hañ i Stadeñ Peningañä, villde fullnægia heñe med Añad Slag. Vid kvædum þetta illa geordt af Officeranum, geingum til hañs, og drou Marqvis ut Korda, ad koma Officeranum af sijnum Asetninge. Hañ ryckte lijka so Korda, eñ eg til ad hindra meira Upphlaup, hlioop æ mille: J þvi stack Officeriñ i miñ Vinstra Armlegg, so ækast blædde.

Marqvis Reiddest þa, og kipte Kordanum af Officeranum, barde hañ sijdañ med hönum uñ Eyruñ, og kastade so Kordanum ut uñ Gluggañ. Officereñ greip Eina Mord-Bissu upp ur Lumñ siñe, og hleipte heñe æ Marqvisen, eñ Kulañ flaug ad eins i gegnum Paruqven. Marqvis hlioop þa æ hañ, greip hañ Hrigg-Speñu, og fleigde hönum æ Goolfed, hefde og farid illa med hañ, ef Foolked i Hwsenu sem heyrde Skoted, hefde ecke hindrad þad. Officereñ kom sier i burt þad fyrsta hañ kuñe: Eñ eg feck mier eirn Bartskera, til ad græda Saar mitt, sem ecke var mieg stoort. Marqvis feck bod fra Officeranum epter þad, ad hañ skyllde skioolast æ vid hañ med Pistolum, eñ Kaupmañs-Konañ hindrade þad æ einhvern ockar Ovitañlegañ Hætt, og kom þvi til Leidar, kañ ske Saker siñar eigeñ Virdingar, ad Officereñ sætte sig vid Marqvis, og forkte þad mikid til miñar Heilbreygde, þar eg añars hefde mæ ske hlooted ad hafa Sorg af Marqvis Skada, eñ vard nu frij fyre Officerans Eptersookn, og gætum so ferdast vockrum Dögum sirre fra Mantua, eñ vid ætludum i Fyrstu.

30. Cap.

## XXX. Cap.

Gustav kemur til Modena, þiggur þar Silfur-Dooser, þeidest þess sem hañ vill ei þiggia, dettur og meider sig þa hañ flijr.

Vid foorum til Adseturs Stadar Hertugans af Modena, villdum nema Stadar hiaa Postenum, og taka þar Hws-Næde, so sem Ferda-Meñ voru vaner. Eñ eiñ Wallendskur Madur af Adle sem þar bioo i Stadnum, og hafde ordid ockur samferda fraa Mantua, liede ockur Hws hiaa sier, hvad vid og þaadum. J þessum Stad var þad skemtelegast, ad Moñum var leift ad gaanga aptur og fram uñr Vollana, hvar Meñ maattu siña allshaattar Foolk, og flytta sier so Dægur. Pad þar til eirn goodañ Vedur-Dag, ad eg geck wt uñ Kvollded, ad reika þar sem kallad-est Reñesteid, eñ Marqvis var heima ad tebla Skaak vid Adals-Mañeñ. Medal añars Foolks þar mier þar fyrer Sioner eirn Ungur Madur Forkunnar værn, i raudum Gullbordalogdum Kiool, og þar under Veste af Trap d'Or, og a Hofdenu vænt svart Spanskt Paruqve, asamt Hatte med hvijtre Fiodur. Jeg hyxade þetta munde aan Efa Edalmadur vera, ellegar ogso Officeré. Hañ geck miøg snidugt og bar sig Artuglega. Jeg reikade nockrum Siñum a Vij vid hañ, eñ hañ leit ætijd hijrlega til mijn; Og Einusiñe riette hañ ad mier sijnar Ref-Tobaks Silfur-Dooser, og mællte til mijn a Wallendsku: Hvort mier þocknadest ecki ad taka i Nefid? Jeg þaade þad, og took til ad hroosa Doosunum, og beiddist epter ad meiga skoda þær betur, hañ let þad strax epter; Saa eg þa i Doosna-Lokenu hullda med Glere Kvenmañs Mynd, miøg liika honum sem feck mier Dooseruar: Hañ sagde ad Sijster sijn, sem nijlega hefdi gyptst einum Greifa i Livorno Salvatelli, hefdi laatid geora þetta, og gefid sier so Dooseruar, so hañ skyllde helldur muna til sijn. Eg hroosade Myndeñe, sem verdt var, helldt ad þesse Okiende Madur munde vera af

Greifa

Greifa Ætt, gaf hønum þvi Greifa-Titil, og villde faa hønum Doofernar aptur. Hañ sagde ad þesse Titill heyrde sier ei til, og mællti: Eg er Baron Rufeito, og tek þad mier fyri Virding, ef þier vilied bijhallda þessum litla Hlut, i Miñing þess, ad vid høfum fundist. Mier hugkte vid þetta, so eg truᵭladest nockud, og visse ei hvadañ slijkt Orlæte kom, talldest þvi undañ fyrst ad þyggia Giøfena: Hañ sagde jeg være Pijstur Edalmadur, og mætti jeg þvi bijhallda Doosunum, og bad mig ad heimsækia sig i Staden; Hañ talade leinge vid mig, og spurde hvad leinge eg hefde verid hier i Modena, og hvørnig mier litest aa Borgena? Jeg svarade hønum sem mier leitst, og reikudum vid eñ þa samañ nockra Stund, þaangad til røckva took, og jeg villde fara ad qvedia hañ, kvadst hañ þa ei vilia tefia mig leingur. Eñ þa eg sagde hønum hvar eg hefde Hwsnæde, gladdist hañ og sagdi ad faa Edalmadur sem eg dvellde hiaa, være Ættinge siñ, og eg skyllde laata sig fylgia mier þaangad. Jeg villde ecke mootmæla hañs Tilbode, og geck epter hønum hier um 100. Skref, aa eina mier Okuña Gøtu, nus hañ stalldrade vid fyri Dyrum eins aasiaalegs Hwss, hvørs Asigkomulag eg gat þo ei vel sied vegna þess hwmad var; Hvad hañ kvadst giøra i þvi Skyne, ad eg skyllde gaanga iñ med sier sniøggvast, aa'medañ hañ læti speña fyri Vagn siñ, og ætlade svo ad keyra med mig til mijns lienta Hwss, þar Vegur þaangad være laangur nockud: Jeg visse og ad þad var satt, og huxade eckert wt i þetta. Moote ockur kom strax ung Stwlka hier um 16. Vetra gømul med Lioos, og vijsade ockur upp Trøppurnar ad einu Herberge, þar geingum vid iñ, og var þar eitt pragtugur og farvadur Salur med hinu prijdelegasta Maalverke, þar bruñu Tvø Vax-Lioos i Silfur-Lømpum: Eg saa þar marga fagra Hlute, og medal añars stooran Speigel, sem took af Goolfenu uppunder Lopted, krijngum hañ voru Raamur af Olin Vide, med Silfur-Bloomstur-Verke. Baroneñ sette mig aa eitt Stool gagnvart Speiglenum, og bad mig forþeynkia ei, þo hañ yrde ad bregda sier fraa mier sem

sniøggvast,

fnøggvast, jeg kuñe ecki ad segia þar i moote. Hañ geck sijdañ i næsta-Herberge, og voru ei nema Dyrnar a mille þess og Stofuñar sem eg var i. Jeg heyrde ad hañ talade vid Kveñfoolk, og meinte þad munde sw fyrr-nefnda Stwlka;. Hañ var leingur i burt eñ mig varde. Jeg geck a medañ ad Glugga einum, og sa þar wtefyrir Jurtagard, eñ þo ecke gløgt, þvi diñt var ordid. Mig took til ad furda a Burtuveru Baronsens; Litlu þar epter kom Stwlkañ til mijn, og bad mig koma med sier, þaangad sem Baroneñ bide mijn i nærsta Herberge; Jeg geck so iñ þærsømu Dyr, sem hañ adur uñfoor, eñ Stwlkañ geck i burt, og sloo Hurdeñe i Laas, mætte mier þa Afbragds føgur Mær, og var hin lijkasta Myndeñe i Doosunum, og allt eins og Baroneñ i Andlits-falle; Hun var ecki nema i Nætur-Klædum einum, og sijnde sig so Astwdlega, ad þad matte Stein-Hiarta vera, sem ecke viknade þar vid.

Gud bijvare mig, sagde eg hare Raustu: Hvada Svik eru mier bruggud? Eingeñ, segir hun, helldur ad eg mætte kyñast vid so agiætañ Pijsskañ Cavallier, sem þier erud miñ Herra, og þier hafid komed Baron Ruseito til ad uñbreita sier i Kveñmañ þañ, sem hefur Hiartañlega Gyrnd til ad geøra ydur alla upphugsanlega Anægiu.

Þesse Blijdyrde hefde komid betur mijnum Marqvis eñ mier, og miñtest eg nu bess sem eg hlaut fyrre af Kveñfoolkenu. Eg þorde ei añad eñ gegna hæverssklega, og sloo wt i allrahanda Gaman-Rædur, ad koma heñe til ad sleppa mier, hvad hun hefur maske teked so upp, sem eg blygdadest og fyrir-virdte mig, Hughreyste mig þvi a margar Lunder, took i Hønd mijna og bad mig akaflega ad setiast nidur hia sier, so hun kyñe helldur segia mier af Høgum sijnum, jeg þyrste eckert ad Ottast, helldur hefde miklu framar Goods eins ad vænta. Jeg lietst gegna heñe i Vinseme; Eñ hun took ad sijna sig angrada. Miñ Herra, segir hun: Þier siaed ad jeg er ein ung Kvina, sem ad søñu ecke sialf hroosa mier af miñe Fegurd, eñ þo so sie, ad margar mune ei framar mier hafa þar Orsøk til: Nu i Tvø

Aar

Aar hefe eg vered gypt einum Mañe Aerlegum og noogu rijkum, eñ hañ gesrer þvert i moote Naattúru þessa Lands Foolks, ad hañ skipter sier harla lijted af Kveñfoolke, so eg veit ecke hvørt eg a nockurn Mañ edur ei; Hañ er skamt a burt hiedañ a sijnum Herra-Garde, og skeiter uñ ecke-ert nema sijnar Jñtekter, og ecke uñ mig, helldur forlæt-ur mig einsamla, so eg verd i hañs Fraaverù ad siña uppa ymislegar Dægrastyttingar. Hañ er nu 52. Aara gam-all, og hefur skriflega vid mig undergeingest, ad ef eg aflade med sier Sonar, aadur eñ eg dæe, þa villde hañ Aarlega gefa mier til Rentu 1000. Ducata, eñ hefur þo sialldañ sunded mig sijdañ Brwdkaup ockar var hallded, helld eg þvi hañ mune ydrast epter Heitenu; Og þesse er nu Orsokeñ, ad eg leita eins Framande sem kyñe hiaalpa mier til ad naa þvi, sem Madur miñ vill og ætlar ad fyrra mig. Þvi he-fe eg lockad ydur i mitt Hws, so ad eg kuñgiorde ydur Kyn mijn og Koste, lijka mijna Epterlaungun.

Nu þott vyrdast mege, so sem eg gaange ut yfer Tak-mørk Aerlegheitaña, sem betur lijtur ut a eiñe Uñkomu-lausre Lausa-Stelpu, eñ eirnre giptre Frw sem eg er, þa meiga samt framfærdar Orsaker noogar vyrdast mier til Afsøkunar; þo eg bidie ydur Sampijningar med miñe O-forskulldadre Utskwsan og Forsøgtun, þvi meiged þier ecke miñ Herra, vinda so braadt ad Burtfør ydar, sem þier Alla reidu byriad hafed, helldur laat mijna Epterleitni siña St-ad hiaa ydur, og vered þess fullvisser, ad eg vil ecke gleyma ad uñbuna ydur þad goodu, ef þier laated þetta epter mier, og stilled mijna Laungun. Hun beid nu epter Svare mij-nu, sem eg þo ei visse hvørsu vera skyllde. Jeg sette heñe þa fyre Sivoner, ad eg Syndgade hier med mikelega, ecke alleina moote Gude og Mañe heñar, helldur og siaalfre he-ñe, og mætte hun þvi ecke leida mig til þessa: Jeg være og eingvn meir gefeñ fyre Kveñ-Foolke eñ Madur heñar, eñ leitade miñar Lijfseme framar i ødrum Hlutum, eñ þeim sem være til Nidurdreps Trigd og Aeru. Vid þesse Ord vard hun Afar-reid, stock af Stoolnum, greip eina Mord-

Bissu

Bissu og laangañ Daggard, og lagde fyre mig aa Borded, med þessum Ordum, ad eg añadhvert skyllde goodlaatlega gegna sijnum Tilmælum, edur utvelia añad þessara til mijns Banä-Verkfæres. Hefda eg þa aatt i Hogge vid Karlmañ, so skyllde miñ Korde hafa vered miñ Raadgiafe, eñ nu var eg sem Faange i Kveña-Sal, og visse ei hvad til Bragds taka skyllde. Madañe, sagde eg, ydar Hootaner eiga ecke Samkynia vid ydar Frijdleika, og stoorum furdar mig ad þier vilied breita so grimlega vid eiñ Mañ, sem þier hafed utvaled ydur til Elskara: Hvada Abata hafed þier af Dauda mijnum? Ecke er hñ þad Medal, sem fullnægia kañ Gyrudum ydar, gefed mier helldur lijteñ Frest, ad yfervega ydar Goodvilld, þvi vera kañ eg faae Siña-Skipte um þad, og giøre sem þier bidied. Verde þad i Tijma, seger hun, þa vil eg gefa ydur eina Eikt til Umþeynkingar, og skal eg fara burt aa medañ: Eñ þad sver eg vid alla Heilaga, ad ef þier epter þessar Priaar Stunder hafed nockrar Vidbaarur, þa skal þad gyllda ydar Lijf, þo þad gyllde mitt aptur. Sijdañ geck hun fraa mier, sloo Hurdeñe i Laas, og let Slaa fyrer Dyrnar, so eg skyllde ei slija meiga. Jeg geck nu fram og aptur i Herbergenu med þungum Þaunkum, hvørneñ eg skyllde frija mig, og syndest þad med ollu Omøgulegt: Hugade þvi, ad jafnskiott sem hun lyke upp Dyrunum, þa skyllde ed med Korda mijnum ridiast til Utgaungu. J þessu Bile lauk eg upp einum Glugganum, og saa þar eitt Tre fyre nedañ: Jeg klifrade þa ut um Gluggañ, og komst so ofañepter Trenu aa sletta Jord, villde þar ei betur til, ad eg var komeñ i eiñ Alldengard, umgirdtañ med Tre-Verke, sem var Haalf Oñur Mañs Hæd. Hver munde nu verr staddur eñ eg var i þad Siñe, eg aatte ei Goods Von, hefde eg fundest þar i Gardenum, og ecke añars eñ þins herfelegasta Dauda. Hefde biartur Dagur vered, munde eg hafa kuñad eitt hvad ur ad raada, eñ nu vard eg ad faalma i kriungum mig, eins og blindur Madur. Um sijder fañ eg fyre mier stuttañ Stiga, og komst so uppaa Tre-Verked, eñ þa eg villde naa Stiganum upp, og koma

hønum nidur hinumeigeñ, slapp hañ ur Høndum mier. Hvad ætte eg nu framar til Bragds ad taka, ad sitia leinge a þessare þuñu Tre-Girding, og bijda þaangad til einhver kiæme a Gøtuñe, og hiælpade mier, gat eg ecke Saker þeirrar Ohægdar sem eg þar ætte. Eg vard og ecke var nockurs Mañs þar i Nænd, eñ sa nockur Lioos breña i fiærlægum Hwsum; Þo eg villde fleigia mier ofañ, þa visse eg ecke hvad under var. Þegar eg nu vere bañig aptur a Bak og æfram a þessum mijnum Tre-Heste, sa eg þa søgru Frw, og med heñe Þriæ Karl-Meñ, hvørn þeirra med siñ Dyrumdal edur Korda i Añare Høndeñe, eñ Var-Lioos i Añare, hun geck sialf a epter þeim, med Skamar-Yrdum, og var þa ecke um añad rædt, eñ ad Drepa, Stijnga og Myrda. Jeg støck þa i Ofbode ofañ af Plank-Verkenu, og fell a Steinana, skadade mig a Vinstra Handleggnum, spreingde i sundur a mier Høfuded, og Vinstre Footureñ geck ur Lide, so eg læ þar Hælfdaudur og barst illa af. Hvad hun med Fylgiurum sijnum adhafdest þar epter i Gardenum, visse eg ei. Foolked sem var a Gøtuñe sañ mig albloodugañ, og spurde mig um mijna Ogiæfu: Jeg sagdest hafa dotted a Steinana i Myrkrenu, og bad þad hiælpa mier so eg kiæmest heim, og lofade med Þacklæte ad læta þad æsañast. Þegar þad var ad stumra yfer mier, villde so Giæfusamlega til, ad eiñ toomur lijtell Vagn, kom þaangad keyrande, a hvørium ad stood eiñ Þienare med Liøos: Folked yfertalade hañ, til ad taka mig uppa Vagneñ, og flytia mig heim, fyre Dryckiu-Peninga, hvad hañ og geørde. Miñ Marqvis vænte nu lijtels Goods af miñe Burt-Veru, og var nockud styggur vid mig i Fyrstu: Eñ þa eg a Frønsku hvijslade ad hønum, ad eg Saklaus til ad biarga Lijfe mijnu, heide ratad i þvilijk Ohøpp, þa kiende hañ i Brioste um mig, og sende strax Bod epter Læknara, sem kom Fæte mijnum aptur i Lideñ, og batt um Sear mijn, af hvørium þad var mest sem eg hafde a Høfdenu. Þegar þetta var bwid, og eg i Einrwme hiæ Marqvis, sagde eg hønum fra ølluſamañ, hloo hañ

þa ad

þa ad þvi, og aatalde mig ad eg hefde ecke orded vid Baon Konuñar, so aastwdlega sem hun hefdi farid þess aa Leit, og sagde eg hefdi kuñad þa i Stadiñ fyri Skraamurnar, ad faa borgad Omaked. Jeg sijnde hønum Doofernar og Myndena i þeim, sem geørde hañ forviteñ ad spyria epter Nafne heñar og Stande: Took sier þar af Tækefære ad sijna Doofernar Edalmañenum sem vid gisium hiaa, og sagdest hafa funded þær aa Vollunum, þa hañ fyri skømu aadur hefde wte reikad þar. Verteñ sagde, ad hin Unga Marchesa Pentirolli hefde aatt þær, edur ad miñsta einhvør miøg lijk heñe, og sig furdade stoorum, hvørneñ hun hefde tapad þeim, eñ vid lietum ecki framar aa þessu bera.

## XXXI. Cap.

### Gustav verdur veikur i Florentz, er Kistu-lagdur, Lifnar aptur. Ferdast til Livorno.

MArqvisen þekte betur eñ Eg Hefndargyrne Vallendskra, hiellt þvi ad Marchesa mmunde hefna Smaanar þeirrar sem heñe var geørd, bwa mier Svik, og kaupa þar til aa Laun nockra Bandita: Af þessu vard hønum Orovtt i Gede, þo hañ med Fyrsta liete mig þad ei aa sier merkia, eñ þa hañ sagde mier þad, og eg visse eirneñ ad miñ Gistingar-Stadur var heñe kuñur, þa geck mier þad nær eñ hønum, og Oskade ad meiga komast med Fride og Frelse burt wr Modena.

Ad lidnum haalfum Maanude, þa eg var ordeñ heill aptur, hugdum vid ad ferdast þadañ so skiott sem møgulegt være, og søgdum Edalmañenum, ad vid hefdum i Siñe ad fara til Bononien, so eingeñ vita skyllde hvørn Vegeñ vid færum; Þetta iñtum vid hønum wte i hañs Lystegarde, og høfdum beded Poosteñ þar komeñ vera, so eingeñ afvisse. Þegar miñ Gedprwde Marqvis hafde goldded hønum 30. Ducata, bæde fyri Hws-Leiguna og Fæded, qvøddum vid hañ, og foorum so styttsta og beinsta Veg til Florentz, hvør Stadur med øllum Retti er af Vallendskum kall.

adur ad Ankaafne Hiñ Fagre, af siinum priidilegu og veglegu Byggingum, og mørgum diirmætum Hlutum, sem eg sleppe hier fraa ad segia: Eñ iñe helldur af sialfs mijns Forløgum. Vid gistum i einu Gestgeafara-Hwse, sem het saa Forgyllte Hane; Þar kyñtunst vid vid allrahanda Ferdameñ af allslags Pioodum, og lietst eg vera Broodur-Son Marqvis med hañs Leife, sem eg og aadur georde þa Tilburdureñ skede i Augsborg. I Florentz foor Marqvis miøg tijdt aa Venus-Veidar, þviad auk þess, þar var i Hwsenu ein føgur Dootter, sem geørde hønum nockrar Nætur-Vitianer: Þa villde hañ og Utañhwss hafa sijna Dægrastytting, hvar af þad skiede, ad hañ sooade sijnu Gull-Sigurverke, og hañs Giallð-Pyngia tæmdest miøg, þvei aabære, so ad hañ fyri Svall þetta, vard ad lifa sparlegar, þvi hañ kuñi ei faa nijtt Vexel fyrr eñ i Livorno. Til ad bæta hønum Skadañ ad nockru Leiti, og andsijna hønum Packlætis Merke, gaf eg hønum þad Gull-Sigur-Verk sem eg feck i Augsborg hiaa Kaupmañenum fyri Høggeñ; Og so var eg Medaumkunarsamur, ad ad mier var komed ad skeinkia hønum Gull-Peningana sem eg hafde iñsaumad i Buxur mijnar, eñ þad hindradest so ecke vard af þvi. Þad bar til eirn Dag, ad eg fyri Middege drack goodañ Teig af Limonade, ad kiæla mier i yfer-Maata miklum Hita, og lijka til ad slæckva Þorsta miñ, aat ogso solltud Pomerantz Eple i Morgun-Skatt, hvar af eg feck so sterkar Iñañtøkur, og Maga-Pijnu, ad eg lagdist Faarsiwkur. Mier voru gefiñ iñ allrahanda Læknis-Medøl: Eñ þad stodade eckert, so eg Dageñ epter var nær Dauda eñ Lijfe Marqvis sende Bod epter Lækner; Eñ þegar hañ saa mig, spaade hañ mier strax Dauda, og sagde eg mætte bwa mig til ad skiliast vid þetta Tijmañlega, eñ taka vid þvi Eilijfa, og geck svo i burt. Var þa ad mestu wtgiørt uñ mig, og Verteñ sijnde mier litla Medaumkan og Adhiwkrun, einkum þegar hañ visse ad eg var ecke sømu Trwar og hañ. Marqvis villde ei ad helldur yfergefa mig, og liet sig aumka mitt Asigkomulag, og ad so lijtt var

vid

vid mig geørt, talde þvi um̃ fyri Vertenum, og sagde ad hañs Allranaadugaste Herra Koũgureñ hefde sendt mig til vigtugra Eyrindageørda, og þar fyri hefde eg orded ad dvelia hier i Florentz til ad athuga Kongsins Gagn og Besta, þvi skyllde hañ geøra vel vid mig: Jeg munde aun Efa verda tekeñ i Forsvar af Konunglegre Haatign, og ef hañ biargade mier ecke vid Lijfid so sem hañ giæte, þa munde hætt verda Lijfe hañs sialfs. Verteñ skipadist so vid þetta, ad hañ tovk til ad hiwkra mier betur. Marqvis gaf hønum ogso 6. Ducata, so hañ liet sækia strax añañ Læknara, sem var reyndur og Goodviliadur; Hañ spaade ecke so Haaskasamlega um̃ Veikleika miñ sem hiñ fyrre. Mier batnade þa og nockud vid Medøliñ sem hañ liet mig taka iñ, og gladdist miñ Marqvis þar af, sem sat alltijd hia Hvijlu-Stock mijnum, og hiwkrade mier sem Fader Barne sijnu, þo eg hefde þad ei verdskulldad. Þa eg var nu so komeñ, ad eg Einusiñe villde komast a Fætur, og gaanga wt underberañ Himen, vard eg aptur yferfalleñ af nijum Siwkdoome, sem a einu Augabragde gagntook so allt mitt Siñe og Tilfiñing, ad eg fell wtaf, og laa sem daudur, mattu Meñ þa fara med mig sem þeir villdu, þvi eg visse hvørke uie-sañ til þess, og leit wt allt eins og Naar, (epter þvi sem Marqvis sagde mier sijdañ) so ad eckert Lijfs-Mark maatte med mier fiña, var þvi halldeñ Steindaudur, og boreñ i eitt hvolft Herberge, smijdud Kista, og eg so Lijk i hana lagdur, atte þa ad grafa mig a Pridia Dege. Þetta angrade harla miøg miñ gooda Marqvis, og sturlade lijka nockud Verteñ, þvi þar eg var af hinum fyrra Læknaranum misgrunadur um̃ Trwar-Villu, þa Ottudust þeir bæder ad þar munde skie Rañsookn um̃ Svik þesse, og þeir rata hier fyrer i Haaska. Þeim kom þa asamt, ad þeir skylldu jarda mig sialfer a Laun so ei yrde vart vid, og skyllde so Marqv. hafa sig wr Hindar-Hlioode og fara burt wr Florentz. Hañ borgade Læknernum fullu, og sagde hønum eg være a Fætur komeñ, og þyrfte hañ ei sijsla um̃ mig framar; Var þa og ecke helldur spurdt epter mier.

Marqvis villdi ecki fara i burt fyrr eñ bwed være ad grafa mig, og styrkte hvad hañ gat til Greftrunar miñar.

Verteñ kom þa upp med þad Raad, ad Añars Dags epter miñañbirlada Dauda, skyllde flytia mig um Midnætte wt a eina þraungva Gøtu, og villde hañ adur reka eirn Daggard i gegnum mig, og stinga a mig Bloode, svo Foolk skyllde meina ad eg hefde verid drepiñ af þeim Banditum; Eñ Marqvis villde ecki sampyckiast, ad so være farid med mig daudañ, þo samt var þad fyri Vertsins Umtølur afrædeð. Kom so Verteñ um Midnætte iñ þaangad sem eg laa med Lioos, hafande Daggard mikiñ i Hende, hwern hañ ætlade ad reka gegnum Hiartad i mier. Hañ hafde og med sier eirn Pott af Hænsna Bloode, sem hañ sette vid Lijk-Kistuna, ad hella yfer mig þegar hañ være bweñ ad stijnga. Hañ droo þa Daggardeñ wr Slijdrunum, og þreifade añare Hende um Briooſt mitt til ad hitta rett a Hiartad; Eñ i þvi hañ siudde þar fast a, þa kom i mig aptur Tilfiñingeñ, so eg leit upp Augunum, og vard skielfdur þa eg saa þeñañ Mañ med naken Hnijfiñ fyri framañ mig. HErra JEsu! sagdi eg: Þvi vilia Meñ myrda mig? Skaut þa Vertenum Skielk i Brijngu, snarade Hnijfnum laangt burt, og took a Raas wt wr Herbergenu: Foor eg þa ogso upp wr Lijk-Kistuñe, ellti hañ og hlioop epter honum iñ i Hws Marqvisens; Vard honum þa og, O-gott vid er hañ saa mig, stock upp af Stoolnum, sloo samañ Hondunum, og Krossade sig i Sijfellu hvad epter añad: Eñ yfer Verten leid, so hañ fell upp i Lopt a Goolfed aflaugur med Skialfsta miklum, og matti ecke Ord mæla. Mier bra og nockud vid þetta; naut Stadar a Goolfenu og starde a þa: Jeg bad þa fyri Guds Saker ad hiaalpa mier af þessum Draum, og segia mier hvørneñ þetta kiæme til, og þvi so Mordingialega være vid mig breitt? Marqv. gat ei ødru trwad, eñ eg være geingeñ aptur, og var ad Krossa sig i Akiefd: Las Pater Noster og Ave Maria, hvad epter añad, og þokade sier smaamsamañ ad Glugganum, ad hlaupa þar wtum ef eg kiæme nær honum.

num. Jeg holde þa ecke ad horsa leingur a þetta Apaspil, og foor ad eg være hvorke Ande nie Diøfull; helldur sa rietti Gustav, þyrftu þeir ecki ad Ottast, og bad þa segia mier þvi þeir hefdu geordt mier þetta, og viliad stijnga mig i Hel? Verteñ raknade nu wr Rotenu, og skreid a Bak vid Marqvisen, eñ þorde þo ei ad tala Ord. Marqvis took þa Livos sem stood a Bordenu, og foor ad lijsa i Augu a mier: Jeg er sa riette Gustav sagdi eg: Hvi vill miñ elskulege Herra Marqvis iñbyrla sier ad eg sie Apturgaanga? Hañ kvadst ecke skilia ad eirn daudur Madur kyñe lifna aptur, standa og tala. Jeg sagdest af eingvum Dauda nie Lijk-Kistu vita ad segia, og þvi beidde eg þa ad hrynda fra sier þessum rangu Þankum, ella skyllde eg kalla a Foolked i Hwsenu, til ad frelsa mig fra þeirra Mordinglegre Ossookn. Marqvis hriste Hofuded, og trwde eñ ecki ad eg lifande være, þangad til eg stadfeste þad med Rokum sterkum, sem tooku fra þeim allañ Otta, og snerest þa allt þetta uppi Forundran: Þeir søgdu mier sijdañ allt hvørsu fared hafde. Eg sagdist eckert af þessu vita añad eñ þad, ad eg hefde orded snøgglega veikur, og mist alla Tilfiñing og Rænu, hvar fyrer eg munde hafa daudur halldeñ vered: Eñ þackade þa Almattugum Gude fyrir þad hañ liet mig koma aptur til sialfs mijns. Sijdañ lietu þeir gefa mier Mat og Dryck, og urdu nu allglader: Toludum so samañ nockra Stund, adur eñ vid geingum til Hvijlldar. Uñ Noottena svaf eg næsta lyted, þvi eg var ad hugsa uñ mijn Tilfelle. Læknereñ gaf mier eñ nu iñ nockra Læknisdooma, til ad styrkia mijna Krapta, so eg vard Ferda fær.

## XXXII. Cap.

### Gustav fer til Skips, fær Storm, sigler til Malta.

Livorno fundum vid Eiñ Mañ ur Sikil-Ey, sem eggiade ockur a ad ferdast med sier til Messina, og so þadañ til Malta. Eñ Marqvis

qvis hafde ætett sier epter þad hañ hafde dvaled nock-
ra Stund i Malta, þadañ ad fara til Sicil-Eyar, sijd-
añ i gegnum Neapolis, og kom til Bononien og Venedig,
og þar epter til Frankarijkis. Þvi villde hañ ei beñañ
siñ Asetning brigda, feck sier helldur Skip, so hañ kiæmest
beinsta Veg til Malta. Þessa Ferd bar so brædum ad,
ad vid feingum varla komed Farængre ockar i Skiped, þvi
Skip-Herrañ villde ei forsooma Byreñ. Þegar vid nlist
um Skionar a Livorno, took til ad koolna Vedred, hvar
af vid hresimust epter þañ ækaflega Hita, sem vid þolad
höfdum ædur. A Vegenum mille Sicil-Eyar og Sar-
dinia, hreptum vær mikeñ Storm af Utnordre, so vær kom-
umst i stærdsta Raadaleyse, þvi Bilgiurnar geingu Odum
iñ i Skiped, og vard vid ecker raaded. Mijn Nijunga-
Gyrne kom mier til ad giæta ad sierhvoriu þvi sem geøra
þurfte a einu Skipi i soddañ Tilfellum, geck eg þvi þess
Eyrendis ut ur Cahittuñe, ad koma uppa Pilsarid: Eñ i
þvi braut Vinduren Segl-Staung eina, so Broted kom
a Vinstre Öxl mier, og kastade mier flötum, flijtte eg mier
þa iñ aptur, og þackade Gude, ad eg ratade ecke meira Tio-
un, þo blæuade og boolgnade Öxleñ þar sem Tred hafde a
komed. Vinduriñ snere sier til Nordurs, og rak skipid
eins og Pijlu være skoted, i Sudur, so ad Stijre-Madureñ
hroopade, ad Vindureñ ætlade ad hrekia oss uppa þær
Africanisku edur Barbarisku Strander, edur og so til Tu-
nis, ef Meñ kostudu ecke alls Kapps uñ ad sporna þar vid:
Eñ litlu sijdar geck Vedred til Vest-Nord-Vesturs, so vid
fryudunst fra þeirre Hæska-Von. Þetta geck i heilar
Tvær Stunder, þar til Stormeñuñ linade nockud, so ad
raaded vard betur vid Skiped, samt hafde þad skadast i
Stormenum og komed Gat a þad, skamt fra Pudur-
Hwsenu, so Siooreñ sem þar hafde iñfalled, var Tvær
Foot-Hæder, og urdum ad pumpa i Akeso, þar til Gated
vard nockurnveigeñ til byrgt. Vær neyddumst nu ad
stefna til Palermo i Sicil-Ey, ad bæta Skip vort, hleypt-
um þvi iñ a Höfnena. Marqvis ydradest nu epter, ad
hañ

hañ hefde ei filgt Rꜳde Sikil-Eyingsins, og fared til Mes-
sina, eñ þegar eg rett athuga, hefur Gud ei viliad hafa þad
ødruvijse. J Palermo feingum vid eitt Malteser Skip,
og ferdudunst ꜳ þvi Dageñ epter til Eyareñar Malta.

## XXXIII. Cap.

### Gustav utleggur Draum þañ er hañ dreymde i Brixen, ser i Sivo-Orustu vid Tyrkia.

Eg lifde alltijd i þwngum Paunk-
um, af Fiærlægd mijns Fødur-Lands, og mijn-
um Slisa-Tilfellum, eirneñ af Draum þeim sem
mig dreymde i Brixen, þar sem breitt var vid mig
eins og Mordingia, og lagde eg hañ ut uppꜳ þa Olucku,
sem eg hafde þar utstaded. Eu diwpa Grÿsia sem eg
þookteft i falleñ, var ecke añad eñ Myrkva-Stofañ, þar sem
eg lꜳ bundeñ, og þolde Hwngur og Þorsta. Elldureñ
sem sveid af mier Hꜳred, og gaf af sier Biks og Breñe-
Steins-Lygt, var su Kvøl sem Bødulleñ georde mier, þa
hañ brende ꜳ mier Høfuded. Sꜳ sierke Madur med
þad stoora Skegg, sem hafde med sier Hiöfled, var sꜳ gri-
mme Bødull: Lijka sem eg komst ur Grisiuñe, so vard eg la-
us lꜳteñ. Fyrer hañ dijrmæta Stein sem eg þookteft
fiña, þijde eg Marqvis: Eñ hvad eg skyllde utþijda þad, ad
hañ fell ur Hende miñe, þa eg geck yfer Vatned, visse eg þa
ecke, er eg kom til Malta, eñ sijdañ sꜳ eg ad þad var fyre
ockar Skilnade i Algier. Eg hafde soddañ Heila-Brot
og þunga Pꜳnka i Malta, ad eg feck ei duled þad fyre mijn
um Marqvis. Eñ hañ Hughreysie mig med sijnum Glede
Fortølum, hiet mier siñe Hiꜳstod, og took mig med sier
hvort sem hañ geck, kom mier eiñeñ i Kuñingskap vid Grofs
Meistarañ, og adra Mikelshꜳttar Riddara, sem audsijndu
ockur mikla Vyrding. Feck eg so smꜳmsamañ Rvoleg-
re Gedsmune, og sette nu meira Traust ꜳ Marqvis eñ
Gud. Pañeñ lidu nu Tveir eda Þrijr Mꜳnuder i Mal-
ta, ad vid tookunst eckert sierlegt ꜳ Hendur. Grofs-

Meistaren (sem þar var tilsettur af Keysara Karl Fimta) sende Jafnadarlega Malteser Skipeñ ut fra sier moote Barbariskum og Tyrkium, i Orrustur, og var mieg Sigursælt; so hañ feck opt miked Herfang og marga Præla: Miñ Marqvis villde nu ei leingur Ydiu og Adgiørdalaus sitia, helldur eñ adrer Malteser Riddarar, hvied þeir voru aller skyllder til ad sijna Hreiste sijna moote Tyrkium. Hañ æeggiade mig og fast med sier ad fara. Løgdum so ut a glvopnudu Her-Skipe, og sigldum so nær Tunis, ad vid attum þangad ecke nema Fimtan Milur: Saum vid þa er lijste uñ Morguneñ, Tvø Keisara-Skip, sem Kvølld-enu fyrer høfdu ut siglt ur Tyrkerienu, til ad avinna aptur fyre þañ mikla Skada sem Maltesar høfdu geort þeim, og fanga þeirra edur añara Christeña Maña Skip.

Jafnskiott sem vier saum Skip þesse, þa drogum vier upp Tyrkneskt Flagg, til ad giña þa Barbarisku nær ofs, og Jñbyrla þeim ad vier værum þeirra Landar fra Tripoli. Þegar Heidingiarner sau þetta, sigldu þeir til vor, og so nær ofs, sem eitt Stickes-Skot. Marger af ockar Soldatum og Skips-Foolke, høfdu klædt sig i Tyrkneskañ Bwning; og geingu med Kiæte uñ Pilfared. Þetta styrkte þa Barbarisku i þeirre Meiningu, ad vid værum Esklaust Tyrkiar, og tooku fagnande a moote ofs. Þegar vorer Yser-Meñ sau þetta, skutu þeir a Tyrkia, so ad þeir fiellu Flockum samañ a Pilsorunum, og marger duttu Ulbyrdes. Vier skutum i aftre, Akiefd, so ad Meñ kuñu valla deila Tyrkia-Skipeñ fra vorn fyre Reik og Svælu. Tyrkiar sporudu ecke helldur sitt Pwdur, so ad i þeirra Fyrsta Skote doou og særdust nockrer af vorum Møñum. Eñ vegna Hrædslu þeirra sem a þa var falleñ, og Tioons þess sem Maltesar høfdu þeim adur geort, datt ur þeim allur Dugur, og villdu flya i Reiknum, vorer Foringiar urdu þess varer, sooktu þvi a epter þeim sem mattu, uns þeir gatu nad þeim, og tooku þa iñ Skip þeirra. Vær leistum strax þa Christnu Præla sem a Skipunum voru, Attatiige og Tvo ad Tolu ur Vidiunum, og løgdum þær a

Tyrkiana

Tyrkiana siœlfa, fluttum þa so flesta œ vort Skip, eñ sett-
um aptur ockar Foolk œ Tyrkia-Skipeñ, seingum so þeim
leistu Prœlum Vopn þeirra, ad þeir skylldu hiœlpa oss i
Þørfum ef œ lœge. Komunst siidañ aptur til Malta,
fyrr eñ þad nockrer komu fræ Tunis, ad heria af oss þetta
Herfæng. Marqvis feck af þessu mikla Glede, ad hañs
Fyrsta-Her-Før Luckadest so vel, og var þad Meistara-
Stycke hañs Hreysie, hañ feck aungvañ Skada, nema hvad
ein Kwla hafde snorted hañs Winstra Handlegg. Jeg
hafde ei hellдur neirn Skada hrept, eñ hætte mier þo midt
iñ œ mille Tyrkiaña, til ad leysa þa Bunduu, og get eg ecke
gleymt hvørsu þad auma Foolk sem eg leyste, þackudu mier
sitt Frelse: Medal hvørra ad var ein Sponsk Stwlka ung,
sem fyre Premür Arunt hafde ratad i þwingañ Prældoom,
og heyrde til Tyrkneskum Officera, hvør ed var alls Kveñ-
Foolks svareñ Ovinur, og flutte hana alltiid med sier, hvørt
sem hañ foor, til ad geora heñe þvi meire Kvøl og Hiarta-
Sorg; og kwga hana til ad gæunga af Trwñe. Huñ var
fræ Alicant, og hier uñ Tvistug ad Alldre, hafde vered
Hertekeñ af Tyrkium, þa huñ ætte ad ferdast til Mesina,
og gyptast einum Kaupmañs-Syne. Nefndur Officere
plœgade hana med þungum Jæru-Vidium œ Høndum
og Footum, took af heñe Klædeñ, og feck heñe aptur sliteñ
og fornañ Kiool ur Segl-Dwk, sem valla gat huled heñar
Blygdan, og var huñ þo nakeñ ad ofañverdu. Adur eñ
hañ ut foor i þessa Orustu, hafde hañ hootad heñe, ad ef huñ
Dauf-heyrdest leingur vid hañs Fortølum, og villde ei ta-
ka Mahometiska Trw, þa skyllde hañ hana Myskunarlaust
med Svipum hijda, sem hañ og geørt hafde, so huñ var
øll Bloodrisa. Hañ hafde og svared vid siñ Gud Maho-
met, ad þa hañ kiæme aptur til Tunis, skyllde hañ med eig-
eñ Hende skera af heñe Brioosteñ, sundurfletta heñar Lij-
kama med Pwdre, og læta so sijna Tvo Hunda rijfa hana i
Parta, ef huñ villde ei sijna Trw taka. Þegar eg nu sag-
de heñe, ad huñ være frelsud af Hende þessa Tyrañs, þa fell
huñ grœtande fyre Fætur mier, fadmade þa og kiste œ

Skoo

Skoo mijna, og sagdest aalijta mig sem Eingel Guds, er sier være af hønum sendur til Mÿskunar, um hvøria hun hefde hañ Noott og Dag beded. Eg gat ei lided leingur, ad hun læge fyre Footum mier, reiste hana þvi upp, og Hughreiste, losande ad koma heñe til Messina edur Alicant. Jeg feck heñe Tyrkneskañ Kiool ad skiila med siinum nakta Liikama, liet hana so fara aa Skip ockar Marqvis: Sagde hun ockur þar fraa ollu þvi hun lided hafde i siinum Prældoome. Þegar vid komum heim, fundum vid Groß-Meistarañ, og iñtum hønum allt af Ferd ockar: Hañ liet allvel yfer þvi, ad eg hefde, so hætt mier vegna Christeñdoomsens Nytsembar. Jeg talade vid hañ um þa Spønsku Stwlku, og bad hañ naada hana, og skioota yfer hana Skioole siinu, og hiaalpa heñe til Sicil-Eyar edur Spania, skipade hañ þa ad leyda hana fyre sig, hun kvadst heita Isabella Mendoza. Jeg færde hana til Groß Meistarans i sama Bwnade og hun i var, þa eg leyste hana ur Vidiunum. Hun klagade saart yfer Officeranum, hvørn hun nefnde Abtul Mumen, og sagde hañ visse ei hvad illa hañ ætte ad høndla vid þa Christnu, sem aa hañs Valldkieme, hvar fyre hañ var og færdur fyre Groß-Meistarañ. Þa hañ kom, var ecke añad of hønum ad heyra, eñ Hroop, Nyd og Skamar-Yrde, hañ hrækte i Andlit Isabella, og Illskadest af þvi, ad hañ geæte ecke framkvæmt aa heñe, þad sem hañ heñe hootad hafde. Isabella umbar med Hoog værd þessa Smaan, eñ bad Groß-Meistarañ ad liida hønum ecke þviliikañ Offa. Hañ kvadst munde fiña hañ betur. Hañ liet spyria hañ, hvert hañ villde ecke taka Christelega Trw? Eñ þar komu ecke aa moote nema Einvoom Skamar-Yrde, og Lastmæle i gegn Christnum, og kallade þa Villu-Hunda og bølvadar Bestiur, sem ecke være þess verder, ad Jørdeñ bære þa. Hañ blygdadest og ecke ad kalla sialfañ Groß-Meystarañ fwlañ Hund, sem so margañ Riett-Trwadañ Muselmañ hefde af Døgum raaded. Og þar þesse Officere eiñig hier aa ofañ Gudlastade hid Kielsetegasta, þa skipade Groß-Meystareñ ad skiera af hønum

um bæde Naser og Eyru, slijta ur honum Tunguna, og grafa hañ sijdañ lifande, hvad allt geort var i Nærveru ock ar Marqvis og Isabellæ.

## XXXIV. Cap.

### Gustav fer i Añad Siñ moot Tyrkium, verd ur Herteckeñ, og illa utleikeñ.

Noorkaun Dogum epter þetta, fast eitt Reisara-Skip fra Malta. Marqvis æsette ad hleypa eñ i moote þvi, og foor eg med honum, a einu Her-Skipe, a hvøriu ad voru Fiñtijge Fallsticke og Tvø Hundrud Mañs: Kost høfdum vid til Hálfs-Mánadar. Vid sigldum gagnvart Tunis, hier uñ Tuttugu og Fiñ Mijlur fra Algier, þar sau um vid eitt Ræningia-Skip. Vid hloodum Seglum a Skipenu, og vorum kyrrer, og bioggumst vid sem best kuñum. I Døgun uñ Morguneñ gætum vid ad lijta Her-Skip mikeд Eina Mijlu fra oss, hvøriu ad eptersylgde añad miña. Vor Skip-Capteiñ var Fullhuge hiñ mesie, og hafde opt barist vid Ræningiana: Hañ skaut sijnum Fall-Bissum a Ovineua, eñ þeir skutu a moote, og hleyptu fram hia oss so sem villdu þeir flya, eñ sneru þo strax vid aptur og skutu i Akiesd, so Kwlurnar flugu i gegnum Skipvort, og ein took Høfuded af Capteinenum, geck þa Marqvis i hañs Stad. Pad miña Ræns-Skiped hafde hier uñ 20. Fallstiicke, eñ hitt 45. Pad miña hætte sier nær oss, og kastade breñande Bik-Krønsum a vort Skip, sem jafnoott urdu þo sløkter. Eirn af þeim fell nidur fyri Fætur mier; Ieg stack i hañ Kordanum, took hañ upp, og kastade honum a þad miña Ræn-Skiped, so ad Elldur hlioop i þad, og neydde þa Barbarisku ad vijkia fra oss uñ Steinsnar, til ad forda sier Skotum og slöckva Elldeñ. Vid skutum epter þeim af 12. Fallstickium, til ad hindra þa, hvar af þad kom, ad Løgeñ dreifdest vijda og las sig iñ i Pudur-Hwsid, so ad allt Skiped flaug i Lopt upp,

upp, og eingeñ Mañeskia vard frelsud sem a þvi var, helldur dreckte Sioorẽ þeim øllum, sem ecki sundurmørdust af Pwdrenu. Þegar þeir a hinu Skipenu saau þetta, urdu þeir Oder og skutu a oss, og draapu af oss Hundrad Mañs, so vier þordum ei ad laata siaa oss a Pilsarenu.

Þa nu Orustañ hafde staded nockra Tijma, og vort Pwdur var ordeð vott af Sioonum sem iñ hafde geinged af Skotunum, þa teingsludu þeir sig vid vort Skip, og hlupu uppa þad med nakta Korda. Vier skutum þa eñ Priaatiju Stickium ofañ fyrer oss, so ad þeir tvistrudust eins og Flugur, og urdu ad hørsa a Bak aptur. Miñ Marqvis eggiade Lided, sem ei var þa epter yfer 70. edur 80. Mañs sem figta kuñu, ad þeir skylldu ei uppgefast, ef þeir villdu ei komast i Æfiñlegañ Prældoom. Tyrkiarner æstust nu sem Olm Leon, og hlupu eñ 50. a Vort Skip, og gerdu þar miked Blood-Bad. Eirn sa hellste af Tyrkiunum mætte mier, og sagdest skyllde skioota mig til Bana, ef eg legde ei af mier Vopneñ: Eñ eg hivo hañ i Haals nidur, og añañ til i Andlited, so hañ miste bæde Sioon og Heyrn.

J þvi Bile feck Marqvis Skot i Footeñ hægra, so hañ fell; Þegar vor Foringe var falleñ, ridladest Foolked, og foor allt i Oreglu: Gaafu þa flester sig faangna, medal hvørra eg var eirn, þvi Tyrke nockur sloo mig med Bissu i Høfuded, so ad eg fell i Svijma. J einu Orde: Vort Skip var tapad, Priaatiju eda 40. Mañs voru miøg saarer og Limlester: Þeim Daudu var wtrudt, eñ þeir sem epter lifdu i Jaarn og Vidiur setter. Þegar Jllmeñi þesse aattu haalfa Mijlu til Algier, raknade eg fyrst vid aptur, og saa þa bæde mig og Marqvis i þwngum Hleckium. Hañ huggade mig, og sagde, ad þa hañ kiæme til Algier, ætlade hañ ad skrifa til Malta, ad vier skylldum verda wtleyster og so hitt Foolked lijka. Hañ bad mig og þad añad Herteknа Foolked, ad leyna þvi, ad hañ være Maltezer Riddare, helldur segia hañ være Franskur Edalmadur, sem teked hefde sier Þienustu i Malta, og skylldi eg segiast vera siñ Þienare: Foolked lofade þessu, eñ Tyrkiar skildu

ei hvad

ei hvad vær telndum. Eg kveid mikilega vid Prældoom-
enum, og epterkomande illre Vidurbreitne. Jeg ætte
nockra Gull-Peninga iñsaumada i Buxum mijnum, sem
Tyrkiarner fundu ecki, þa þeir faungudu mig: Eñ nockra
Peninga i Silfur-Mynt fundu þeir æ mier og tooku þar.
Jeg hugde ad þesse miñ hullde Fearsioodur munde sijdañ
kuña ad gagna mier nockud til Frelsis, og giætte þañs þvi
med stærstu Umhyggiu. Vær nalgudumst Algier æ
meir og meir, og sæum Stadeñ. Tyrkiarner gæfu
sijna Komu til Vitundar Tveimur Skotum, bæde af sijnu
og þvi Herteknа Skipe, og lagdust so vid Akkier æ Høfn-
ena: Tooku Klædeñ af oss Faungunum, og fluttu oss sijd-
añ i Land æ litlum Baat, var þar þa vid Siæfar-Strønd-
ena mikill Fiølldе Foolks, sem Saker Forvitne voru þan-
gad komner ad siæ oss, og fretta hvørnig til hefde geingid.
Eñ jafnskiott sem þeir heyrdu ad vid værum Malteser,
svifust þeir ecki ad geøra oss allt Illt: So ef ad Capteineñ
sem Hertook oss, hefde ei rædеd þar nockra Boot æ, þa
mundu þeir añadhvørt hafa dreped oss, edur bared til O-
Boota sem Hunda. Mig umkrijngdu nockrer unger Tyr-
kiar, sem børdu mig med nockrum smæ Keppum: Jeg
varde mig med Knefum sem eg kuñe, eñ þeir tooku fullar
Hendur af Reñesteins Bleitu, og jusu yfer mig, ad eg var
eingre Mañeskiu lijkur, og hroopade um Hiælp. Þar
voru nockrer Janisker, sem ræku þessa Skælka i burt, og
leiddu mig til Vatns, hvar ed nockrer mijner Medfængar
þvodu mig. Tyrkeñ sem utsendt hafde Reisara-Skip-
ed, var stoor, Alitlegur og vel-bweñ; Hañ skodade oss
alla, og liet færa oss æ eirn Stad sem kallast Batasian,
hvar vier vorum skodader ad Niju, ef nockur i Algier kyñe
ad þeckia oss hvad fyrer einer vier værum. Miñ Marqvis
gat ecke staded vegna Skotsins sem hañ hafde feinged i Foot-
eñ, sette sig þvi nidur æ Jordena, var hañ þa steigeñ af
einum Tyrkia, so hañ hlaut ad standa upp aptur, og slyd-
iast vid añañ Fænga. Þegar vier høfdum staded þar
nockra Stund, og Ræningeñ hafde skodad Skiped, vard
hañ

hañ Oþoleñmoodur af vorre þar-Komu, nær hañ heyrde ad ecke være Peninga Von hiaa oß. Wier kvaadumst aller vera Baatsmeñ og Soldatar: Skipade hañ þa ad færa þessa Hunda til Bassans, og hlutum vær so ad fylgia hønum epter i all-aumkunarlegu Asigkomulage.

## XXXV. Cap.

### Gustav kemur fyri Bassan i Algier, er skiliñ fraa Marqvis, verdur Præll, sier aa Dauda-Kvøl eins Bartskiera.

Þegar Tyrkiarner raaku oß nu so undañ sier sem Skiulausar Skepnur, komum vid uñt sijder mit i Stadeñ, þar sem var prijdileg Bygging med Marmara Pijlaarum, og feingum þa vita, ad Bassen edur Vice-Roy i Algier bioo þar. Oß var skipad ad koma fyri hañ. Saa eg hañ þa sitia aa Hæd nockurre, og praktuglega klæddum Beck. Hañ hafde mikid Skegg, Hrockvott Eñe, og var all-illelegur Asijndum. Hañ sat og hafde Kroßlagt Fæturnar, hiellt aa Hogg-Korda i añare Hende, eñ hvijtum Staf settum Fiødrum i Añare, og var mier sagt hañ brwkade þetta þa Hite være, ad reka fraa sier Flugurnar. Ræningeñ sem vier tilheyrdum, talade vid hañ nockur Ord aa Tyrknesku, og bendte til mijns Marqvis, hvad mier geørde stoort Angur, þvi eg var hræddur fyri Dauda hañs, þo vard sw mijn Grunsemi eñ þa stærre, þegar Bassen liet spyria hañ ad fyrer eirn Wallendskañ Renegat, hvad hønum hefde geinged til ad veria sig so aakaflega i Orustuñe, þegar hañ saa sig yferuñeñ, ad hañ hefde dreped so margañ Ougandis Tyrkia? Maaduge Herra, sagde Marqvis: Þar til geck mier eckert añad, eñ ad eg villde sem leingst veria mitt Frelse, og þvi geck eg i Stad Officerans sem i Hel var skoteñ, so ad Foolked lieti ecke af ad veria sig, fyrr eñ adrerhvørier iñe Sigur. Jeg neita ecke ad þad meige Ofdyrska kallast, eñ ydar Haatign mun þad ei misvirda, þvi eirn riettur Soldat

er ecke

er ecke skylldugur til ad gefast fyrre upp, eñ hañ er yferuñeñ.
Þegar nu Renegaten hafde a Tyrkneſku ſagt þetta Baſſanum, og Reiſareñ hafde lagt þar nockur ſa Ord til, þa baud hañ ad Marqvis ſegde Rafn ſitt og Embætte. Jeg heite Jean Lemorin ſagde hañ, og er eiñ Edal-Madur fæddur i Nordmandi, var eg ungur þa Forelldrar mijner doou, þau lietu mier ſo lijted epter ſig, ad eg hlaut geſa mig i Druſtr, og biarga Liiſe mijnu med Kordannm. Fyri ſaum Maanudum took eiñ Malteſer Riddare mig ad ſier, og gerde mig ad einum UnderOfficera, og bad Embætte hafde eg til þeſs nu er eg var ſaangeñ. Po vil eg Oſka ad mier leiſt ſie ad ſkriſa til, mijnum Riddara i Malta, og munu þa Peningar ſender mier til Utlauſnar. Baſſen ſyndeſt anægd ur med þetta Svar, og ſkilde eg ſo miked, ad hañ Oſkade af Ræningianum ad eignaſt miñ Marqvis, var hañ þa ſtrax a burt leiddur, ſo eg gat ecke neitt vid hañ talad, eñ kallade epter honum og ſagde: A! miñ goode Lemorin, gleymdu þo ei þijnum Ogiæfnſama Guſtav, helldur þeink a Lauſn mijna, ſem eg ſkal bidia, ad Gud i Himnenum laate ecke Olaunada: Hañ Joſade þvi med Eyde, og geck ſo Sorgfullur fra mijnum Augum, gat eg þa og ecke helldur Taara bundeſt. Baſſen ſkipade Ræningianum ad taka oſs burt med ſier. Var oſs þa viiſad i eiñ diwpañ Kiallara, ſem var a Bak vid Hws hañs, þar urdum vær ad liggia a beru Goolſe, og laata oſs nægia med lijteñ Mola Brauds og Vatn. Peir af oſs ſem ſærder voru i Oruſtuñe vid Tyrkiana, feingu lijted af heitum Hriiſen-Grioona-Graut. Par kom og eiñ Lækner til þeirra, ſem var eiñ keyptur Præll, og atte ad græda þa. Eñ hañ var ſo Ofroodur i þeirre Kunſt, ad þar doon Sio iñañ Priggia Daga, ſem þo heſdu liſad, ef vered heſde a Chriſtnu Lande og friaalſer, þvi þar er betur breitt vid Siwka, eñ hia Tyrkium. Pegar nu Ræningeñ, hvorium vier tilheyrdum, hier af ſeck (epter hañs Reikninge) Skada til Puſund Rixdala, vard hañ ſo aakaflega Reidur Prælnum, ad hañ i allra vor Vid urviiſt, liet giefa honum Sex Hundr. Slog a ſiñ Bwk, uns

 hañ

hañ deyde: Og var. þad Særaumkunarlegt ad siaa og heyra, og eñ nu rijs mier Haar aa Hofde, þegar eg huxa til þess, hvorneñ hañ velltest aa Jørduñe eins oa añar Madkur, og Ostrade af Ofraun Kvalareñar sem Naut, þar til hañ doo sundursliteñ og mareñ. Þesse Tyrañe hafde einga Medaumkañ i sier, helldur saa aa þetta med mestu Glede og Giedþeckne, sem hañ gørde eitthvørt Lofs verdt Verk. Vær Faangarner baadum Gud aller iñelega uñ Myskun og Lausn. Vær gørdum med oss Innesleg Raad, þo forgefens: Afriednum þvi ad bijda þess sem verda villde, og hallda hver med ødrum.

## XXXVI. Cap.

### Gustav og hañs Med-Faangar, færast aa Torged i Algier, og seliast Mansale.

SA Reisare sem oss hijngad til ætt hafde, villde nu ei leingur kosta uppaa oss, þessum litlu Braud-Molum og Vatne, sem þo gat ei miña vered: Liet þvi flytia oss upp ur Kiallaranum, og sijdañ aa Kaupa-Torged, hvar ed mikell Mañ-Fiølldi var fyri. Vorum vær þa boduer upp til Kaups, fyri eiñ Uthroopara, sem hafde Kiepp-Staf i Hende, og færde oss aptur og fraañ. Eg visse ei hvad fyri laa: Eñ eiñ Christeñ Præll fraa Neapolis, sem þar frañ hiaa geck, med Korn-Tuñu aa Hnackanum, sagde mier þad med faam Ordum, er hañ Oskade mier naadugs Hws-Boonda. Þar kom eirn aalitlegur Tyrki, og skodade mig Hæls og Hnacka aa mille, Hendurnar, Teñurnar, og foor Innislega med mig. Uthrooppareñ skipade mier ad hlaupa frañ og aptur, eirneñ ad hlaupa 50. Skref ad einu Hwse, og snwa med Skinde til Baka aptur. Lijka hlant eg ad taka upp aa Veigenum eirn stooran Stein, og aan añara Tilstyrks hefia hañ aa Oxl mier, og bera ad aadur-nefndu Hwse, so eg svitnade allur. Eg neytte hier til allrar miñar Orku, og lijkade Tyrkianum þad so vel, ad hañ band Uthrooparanum 200

Rixdale

Rixdale fyrislmig: Eñ Reisareñ var ei ánægdur med þad, þvi hañ hugde ad sáa meira, og liet vijkia mier Assijdis frá. Vóru þa mijner med-Fángar eñ færder fram og aptur, þar til ad sig gáfu fram nockrer Kaupmeñ: Eñ eingeñ villde gefa meir eñ 100. eda mest 150. Dale fyri neirn af þeim. Pa kom Tyrkeñ aptur til mijn, sem áður hafde reynt miñ Provtt, og adspurde mig á Franciski (sem samañ er blondud af Vallendsku, Svønsku, Frønsku og Pijsku) hvad eg hiete? Hvørs Lands-Madur eg være, og hvøria Iþrovtt eg lærdt hefde? Eg skilde ei Málled, og hlaut Uthroopareñ ad segia mier þad á Vallendsku, og bad mig svara Einardlega. Jeg sagde riett til Nafns mijns, og ad eg være Sveuskur ad Ætt, hefde fared Ungur til Fracklands, og ferdast mijlega þadañ til Malta, þar hefdi eg komest i Pienustu hiá einum Riddara, og vered hañs Herbergia Sveiñ; Hañ hefde sijdañ láted mig til Franskś Officera, og hiá hønum hefdi eg þioonad sem Soldat. Tyrkeñ hlustade epter þessare Søgu, og geck frá mier 8. eda 9. Skref, og foor ad tala vid añañ Tyrkia.

Þegar vid høfdum nu nockra Stund vered bodner upp og georder faler, og eg esadest um ad nockur af oss munde ad þvi Siñe fá Hwsboonda-Skipte: Færde Uthroopareñ oss eñ þa nockrum Siñum um kring og kallade med háarre Raust, þetta Vana-Ord: Arrache! Arrache! Sem þijder: Hvør bijdur meir? Þángad til vorer Kaupmeñ tooku til ad deila og þrátta um oss, og feingum so aller ymsa Hwsbændur: Eg hlotnadest einum Tyrkia fyri 225. Rixdale. Pad er Vane i Algier, ad þad hærsta Verd sem sett verdur uppá Prælana er skrifad á Sedel, og hañ festur á sierhvørs Høfud: Sijdañ eru þeir færder til Bassans, ef hañ kañ vilia taka þá fyri sama Verd. Eñ þad skiede þo ei i þetta Siñ, þvi hañ villde eingañ af Fangunum utañ Marqvisen; Foor so hvør med sijnum Hwsboonda. Gud veit hvørsu glad eg geck þang Spor, þa eg huxade um mijna epterkomande Anaud og Olucku: Eñ eg vard ad leyna á mier, so ecki merktest miñ Ovilie,

og munder þu Skulldbinda mig til Æfenlegs Þacklætes vid þig, ef þu gæfer mier gott Raad, a hvørn Hætt eg gæte komed fraũ þessum mijnum Asetninge, og fared hiedañ fra Algier. Pier hafed misskiled Aheimula sege eg, ef þier hafed teked mijn firre Ord fyre Asøkun, þar eg hefe ydur marga Velgiørninga ad þacka: Eñ þier verded ad forlaata mier, þo eg sege ydur, ad ydar Tilhueiging lijtur ad nockru þvi, sem ecke a vid mijn Trwarbrøgd. Pad er ad vijsu satt, ad Kveñ-Foolked i Christeñdoomenum hefur sama Frialsleik og Karlmeñerner, ad so miklu Leite, sem Soomasamleg Umgeingne utkrefur og leifer, so bær bæde heima og Añarstadar meiga Ohindradar umgangast med ødrum. Eñ þad meiged þier vita, ad ecke er Christeñdoomureñ i hvilijkre Epterlaatseme iñesaleñ, helldur i miklu ædre Hlutum. Pvi Meñ verda laangtum framar medal Christeña, med Ordum og Verkum Leint og Liooft ad sijna, ad þeir geøre ei añad eñ þad sem er Ostraffañlegt bæde fyre Gude og Møñum. Sa same Gud, sem er Eiñ i Veruñe, eñ þo Preñur i Persoonunum, hvørn Meñ eiga ad Ottast, vyrda og elska yfer alla Hlute fram, hefur laated fyriskrifa oss Christnum Løgmaal, fyre sijna Heilaga Spaameñ og añad utvaled Foolk: So og fyre siñ Eingeteñ Son, hvørn hañ sende hijngad a Jordena, til ad lijda hiñ Smaanarlegasta Dauda fyre vorar Synder, og uppvakte hañ fra Daudum a Pridia Dege. Epter hañs Løgmaale eigum vid ad lifa, ef vier skulum a Dauda-Stunduñe komast til Eilijfrar Glede, sem hañ lofad hefur. Hier af meiged þier sia, ad Christeñdoomureñ er ecke iñesaleñ i Jardneskum Vellystingum og Fullnægiu: Par fyre kuñed þier ecke ad hafa Gud Naadugañ, edur sløduga Velferd, ef þier Osked ad verda Christeñ, einasta i þvi Skyne, ad meiga nioota Dægrastittingar, og Umgeingnes med Karl-Møñum, hvør þo (sem eg firre sagde) ecke er bøñud i Christneñe. Og nema so sie, ad þier alvarlega asetied ydur, ad lifa Froomu, Hreinserdugu og Ostraffañlega Framferde, og fordast Synder og Leste, eñ i þeirra Stad

ydka Guds Ottañ, Hreinlijfed og adrar Dygder; þa erud þier midt i Christneñe, eingu betre eñ eiñ Tyrke, edur ſu Mañeſkia, ſem Gud uñ ſijder vill ſteypa i Helvijte til Fordæmdra Diofla, hvadañ eingeñ Endurlauſn er uñ Eilijfd; helldur Obærelegar Kvaler og Pijſler Eilijflega. Þar fra mun Gud Christeña Maña vardveita ꝛnig i Raad ſeger Aham: Añars hrædeſt eg þijn Ord miñ kiære Guſtav. Þo ſamt hefe eg eingu ad ſijdur einſett mier ad vijkia hvør ge fra þeſſu mijnu Uppatæke. Ecke langar mig til ad verda Christeñ i Til-lite til Vellyſtingaña. Eg ſver og vid þiñ Gud, ad eg vil feigeñ gefa mig under øll þaug Løg ſem hañ hefur ydur fyreſkrifad: Þeink þar fyre ecke, ad eg af Hollðlegum Gyrndum, edur ødrum Otilhlijdelegum Tilgange, Oſke ad breita mijnum Lifnadar Hattum edur Trwarjatningu. Ef þad være ſvo, þa vantar mig ecke Hentugleika til ad uppfylla mijnar Gyrnder, þar Fader miñ er Daglega ad plaga mig med Giptinga-Tale, eñ eg fiñ einga Gyrnd hia mier til þeſs, hyrde ecke helldur þeſs vegna uñ Karlmaña Umgeingne. Fiñer þu nu þeſſa mijna Beidne Saklauſa ad vera, þa kemur til þiña Raada, ad ſia Veg til hvørſu eg kyñe na þeirre Giæfu, ad verda Christeñ, og vil eg þijnum Raadum framfara, og ad ſtoda þig i þvi ſem eg gict. Þad ſem þier Oſked af mier Ahamula ſegeɾ eg, ſijneſt mier ſo Omøgulegt, ſem ad fara yfer Siooeñ an Skips: Ad flya Leinelega burt med ydur, ſie eg eingañ Veg til, og geørde eg nockur þvilijk Raad, munde þad ganga mier, eins og fyre nockrum Arum hia Iſmael-Aſan. Eñ ſie þad ydar Alvara, ad fara med mier i Christnena, þa ma Almattugur Gud vera ſialfur ockar Raadgiafe og Vegviſare. Ahamula hieldt þvi faſtara a ſijnu Maale, kvadſt munde betra betur yfervega og heimuglega ſegia mier ſijdañ ſijna Meining.

## XLIX. Cap.

### Gustav fær Frelse, og tekur Ahamula å Laun burt med sier.

Vel lidu so nockrer Tijmar, ad su froo-ma Ahamula kom eige fram siinum Raadageord-um ad flya med mier, og klagade hørmulega yser þvi vid mig, talade hun tijdast um Christendoom, en, i hvørium eg og undervijsade hene, þad betsta eg kune, meinande mig hier med gióra Gude þægt Verk, epter Skylldu mine, ad vijsa eine Villuraafande Maneskiu a Himnarijkes-Veg, epter henar Innelegre Hiartans Epter-leitne, og foor hene þar furdanlega fram i, sagdest og fina med sier Hiartans Anægin af þvi tendrada Lioose Guds og hans Vilia Peckingar: Kvadst helldur kioosa ad vera hin allra audvyrdelegasta Ambaatt i Christnene, en hin hellsta Edal-Frw i Tyrkerynu, og færde þar til Riettvijsar Or-saker. Þegar vid høfdum nu þanig leinge uingeingest, bar þad til, ad ein Portugisiskur Jesuite kom til Algier, sem het Xaverio-Arbasor, og villde kaupa nockra fartæka Præla lausa, fyre Peninga þa sem Medaumkunarsamer Men høfdu giefed i Aulmusu, og saman voru safnader um Christendoomen. Nær han hafde nu feinged Orðlof af Bassanum, ad meiga koma i Land, og kungiora sin Aset-ning i Stadnum, þa kom han og i mijns Herra Hws, til ad leysa einn wr Prældoome, sem verid hafde Constabel a einu Portugisisku Skipe, og høfdu hans Viner i Lissabon lagt hønum goodan Peninga-Styrk til Frelsis. Nefndur Præll kallade sig Emanuel Reinira, han hafde fyri Bæn mijna noted mikils Goods hiaa Cadem Hamet, og ad Auk þess, eg Daglega skamtade hønum Mat og Dryck, hafdi eg komid þvi til Leidar, ad han hafdi ecke so þrwngt Erfide sem hans Medfangar. Pater Xaverio Arbasor keypte þena Emanuel lausan wr Fiogra Ara Prældoome fyri 200. Dale: Og var han so Medaumkunarsamur vid mig, ad han bad Jesuitan frija mig af Prældoomenum,

Gude til Æru. Pater Xaverio lofade hønum þvi, geck til Hwsbponda mijns, og spurde hvad mijn Utlausn skyllde kosta? Eadem Hamet villde traudlega missa mig, og meinte ad fæla Jesuitañ fraa Kaupenn, kvadst vilia faa fyri mig 300. Ducata i Tyrkneskre Mynt, hvør i þad Siñ kostade meir eñ añars var vant. Jesuitanum sijndest þetta ofmikil Suma, og var so þar med wte mijn Lausnar Von. Jeg sagde þetta Ahamula, eñ hun frelsade mig strax, og lofade ad lxata til þessa 300. Ducata, ef eg villde taka sig med mier i burt fraa Algier a þetta Portugisiska Skip. Feck hun mier so þessa Peninga, sem eg afhendte Jesuitanum, og sagde hønum Ahamulas Beidne: Eñ hañ kveid fyri, ad hañ Saker þessa kyñe ad komast i Olucku med Skipe sijnu, ef þetta spyrde nockur, ad hañ tæke med sier Doottur Tyrkians. Eg lofade hønum hxalfu Hundrade Ducata af sixalfs mijns Peningum, ef hañ finde uppa eitthvørt gott Raad til ad taka med sier Ahamula; Liet hañ þa gyñast af Peningunum, og lofade ad huxa epter þvi.

Nu bar so Giæfusamlega under fyri Gudlega Tilhlutan, ad Hwsboonde miñ, (epter þad hañ hafde teked vid þessu Giallde, af Pater Xaverio, og tekid af mier Prældooms Hleckena) hlant Dageñ epter ad ferdast i vigtugar Eyrindagesrder. Hafde hønum verid til Geds ad hafa med sier Doottur sijna; Eñ þa hun þad visse, lietst hun kraunk vera, vard hun þvi kyrr epter heima, i Adgiætslu Sextugrar Kierlingar. Eñ Tyrkeñ foor med Premur Prælum, og Hiaakonu siñe Hñu Galvin Moodur Ahamulas, af hvørre hañ hieldt mest.

Kierling skilde ecke neitt i Vallendsku, og gaatum vid Ahamula geørt oll ockar Raad fyri heñe. Dageñ sem vid skylldum fara a Skip, gaf hun Kierlingu iñ Svefn-Dryck, og breitte Bwnade sijnum, klædde sig eins og Portugisiskur Soldat, so hun i þessum Bwninge giæti geingid med mier til Skips, þegar Pater Xaverio villde sigla af Stad. Hañ wtvegade mier þesse Klæde hia einum Baatsmañe, sem Ahamula klædde sig i: Hun took eirneñ med sier siñ Tyrk-

neska Klædnad, i hvørn hun Innsanmad hafde sijna Gull-Hrijnga, og Dijrgripe, sem verdt var nockra Pusund Ducata. Jeg flutte þetta, a Skip til Jesuitans, en hañ hulde þad i afviknum Stad, so eingeñ visse, nema vid baader.

Litlu fyrer ockar Burtför, sem skiede um Kvølld-Tijma med hagstædum Byr, hafde sw gamla Tyrk-Inna sofid i Tvo Dægur. Alhamula foor nu i Soldats Føteñ, og yfer-dreifde sijn hvørs Dags Klæde med Lambs-Bloode, so Meñ þeynkia skylldu ad hun hefde myrdt vered: Hun liet og Kistileñ, sem heñar Gersemar høfdu i vered, standa open, eins og wr hønum hefde stoled verid. Allt þetta skiede til ad afvenda Grunsemi um heñar Flootta til Christendoomsins. Vid geingnum sijdañ wt um einar Leyne-Dyr a eitt þraungt Stræte, og hafde hun klijnt Andlit sitt, so Foolks-Fiølden, sem er Otalulegur i Algier, skyllde ecke þeckia hana, og luckadest ockur þetta vel, søörum i Baateñ og so til Skipsins, sem eñ þa laa, vid Atkiere, a Høfneñe: Vorū þa og aller þeir keyptu Prælar komner, sem voru ad Toln 54. Sijdañ køñudu Tyrkiar Skiped, hvørt eingeñ Prælaña være a Lauñ burt hlaupeñ, og er þad fañst ecki, var oss eingeñ Hindran geørd. Lettum þvi Atkierum, kvoddum Algier med nockrum Fallstickia-Skotum, feingnum Byr goodañ, og hielldum til Lissabon.

## L. Cap.

### Gustav þackar Gude sijna Lausn: Hañ og Alhamula verda siwk, og batnar aptur.

Nu komst Eg nu fyrst Guds mikla Myskunsemi wr þvi Eymdarlega Prældooms og Anaudar Stande, i hvørju eg hafde vered þvi nær Atta Aar, og aatt Fioora Hwsbændur. Hvad til bar a medañ eg var hia Cadem Hamet, var ei so Markverdugt, ad eg gieti þar um skrifad. Þegar vid sigldum fraa Algier, þackade eg Gude Hiartañlega, fyri hañs mikla Myskun og Naad mier audsijnda, og ad hañ hiaalpade

mier ad snwa heim Tveimur Tirwar-Nijdingum aptur aa rietta Leid. Lijka Vegsamadi eg Guds Fødurlega Giædsku, fyri þad hañ hefde plantad i Hiarta Ahamula soddañ alvarlega Gyrnd og Epterlaungun til Christeñdoomsins, ad hun forliet þess vegna allañ siñ Rijkdoom, aasamt Fødur og Mòòdur: Eg bad hañ og so audmiwklega ad vardveita mig aa Ferdeñe til Portugal, þvi þaangad aasetti eg nu med þessu Skipe fyrst ad hallda, og komast so þadañ añadhvørt i Eingland eda Holland, ad hiaalpa mier þar sem eg kyñe; Eñ fyrer Ahamula var eg ei so stoorañ Kvijdboga, þvi eg visse hun hafde nockra Þusund Ducata Verd hnled i Klædum sijnum, var eirneñ Ung og frijd sijnum, so hun sijndest flioott saa munde meiga aagiætañ Naadahag og Gypting. Snmer laañ mier og aa Hææsse, ad eg tæke hana ecki sialfur mier til Eigeñkonu, eñ eg var ecke þess Siñis ad gypta mig: Lijka myndi eg og so til miñar Uñustu i Dantzig, og ockar bundna Sattmaala. Um þetta Leite urdum vid bæde siwk þa fyrstu Noott epter ockar Burtfør fraa Algier, eñ ockur batnade aptur smaamsamañ, fyri Læknis Medøl þaug er ockur gefiñ voru: Þo komst hun ecke til siñar fyllrar Heilbrygde, fyrr eñ vær vorum komner fyri þañ ytsta Skaga af Evropa, sem kallast Capo de St. Vincente. Loksins komunst vær i þa miklu Høfn vid Lissabon og stigum aa Land.

## LI. Cap.

### Gustav fiñur Danskañ Skips Capitain i Lissabon, sem yfertalar hañ ad fara med sier til Austindien.

ÞEgar vid komum aa Land vid Lissabon, sañ eg eirn framande Mañ i Fiørnñe med Tveimur Soldatum er toludu Dønsku, af hvørre eg miøg lijted skilde. Þesse Madur (hvørn eg meinte vera eirn Sioo-Officera) bendte mier med Fijngrenum, og spurde mig aa Frønsku,

hvört eg være eirn af þeim vtleystu Faungum, sem nijkomed hefde med þvi Portugisiska Skipe? Eg jattade þvi, og sagde honum fra um Ahamulam, hvad hañ mikilega forundradi, og took til ad hroosa heñar Fegurd. Hañ spurde mig ad mijnu Fødurlande og Trwarbrøgdum? Eg sagde honum satt til þess, ad eg være Svenskur ad Ætt og Lutheraniskur. Peiged þier fyri Guds Saker, sagdi hañ, og laated hier eingvañ þetta heyra, þvi a moote þvilijkum er hier illa tekid: Añars er eg þo sømu Trwar og þier, eirn Danskur Skips Capteiñ sem a ad ferdast til Austindien.

Sijdañ baud hañ ockur Ahamula, ad koma til sijn a Skip-sitt, so vid værum þvi Ohultare. Hañ baudst og til ad borga Portugisunum fyri mig, Peningana sem þeir hefdu wtlagt mier til Lausnar, lijka Reisu Kostnadeñ, og skyllde þegar segia, ad hañ hefde teked mig i sijna Þienustu; Hañ kvadst og vilia veita Ahamula gooda Forsorgun. Jeg took vel þessu Capteinsins Tilbode, og sagde Ahamula þessa hañs Raadageord a Wallendsku. Hun kvadst vel til Frids ad fylgia mier epter hvört eg villde, þo þad være til vtsta Heims Enda, so hun kyñe þvi helldur ad sijna mier Packlæte og Þienustu fyri Trygd mijna. Capteiñiñ skilde og Wallendsku, gaf sig þvi a Tal vid Ahamula, og losade heñe siñe Adstod. Fooruin sijdañ oll a Fund þess Portugisiska Capteins, med hvörium vid foorum fra Algier, og lukum ockar Erindum vid hañ. Jeg sagde þeim Danska Captein, ad eg villde halldа til Einglands edur Hollands, og tiaade honum af ollum mijnum Afsollum. Hañ, hvör ed nefudest Johañ Petur Rosen-Krans, riede mier ad snwa fra mijnum Asetuinge, og eggiade mig a ad fara med sier til Indien, og taka Ahamula med mier. Eg var tregur til þessa, og afsakade mig a marga Vega, eñ þad hiaalpade ei, so vid riedum af ad fara med honum a Skip, þo med vissum Skilmaalum. Eg bad Capteineñ mikilega fyrer Ahamula, og sagdist eiga ad þacka heñe mijna Lausn, þad hañ og tilsia, ad hun epter siñe Hiartanlegre Epterþreying mætte sem fyrst Christnast. Hañ losade mier ollu

Goodu, og töok Gud til Vitnis, ad hañ skyllde breita vid ockur sem Vme sijna: Sitt Bord og sijn Pyngia skyllde vera ockur til Pooknunar aan Betalings, og ef vid giætum ei unad Hag ockar i Indien, þa skyllde hañ flytia ockur aptur med i Evropam. Fyrer Ahamula þurfed þier ei ad kvijda, segir hañ: Þvi eg hefi Tvo Presta hiaa mier a Skipenu: Aña̋r þeirra ad verda epter i Indien, eñ añar flytia Guds Pyoonustugiørd aa Heim-Reysiñe i Skipenu; Þeir muñu sorga fyrer Ahamulas Saal, og Christina hana: Eg vil og tilsiaa ad eingeñ kreinke heñar Æru. Ollu þessu töok eg med Packlæte af Capteinenum: Uñ Kvøllded saamm vid med honum ad Maaltijd, geingum sijdañ til Hwijlldar, og svaasum vært uñ Nottena. Uñ Morguneñ epter þa vier høfdum loked Veniulegu Bænahallde voru, feck Capt. mier þienañlegañ Reysu-Klædnad, og Tyrk-Jñuñe Fatnad, tilbweñ aa Franskañ Haatt, sem heñi aagiætlega sooijide. Siidañ foorum vid optur i Land aasamt Capt. og reikade hañ med ockur uñ Kring i Stadnum Tvo Tijma, til ad skoda hañ, geck sijdañ aa Herra-Gardeñ ad wtgeora sitt Eyrende, sem hañ hafde vid eirn Portugisiskañ Vice-Roy til Goa i Austindien, hvør ed fyri Tveimur Arum, hafde raanglega tekid eitt Danskt Skip, og hallded þvi iñe allt til þessa. Atte nu Capteiñ Rosen-Krants, ad leita epter þeim Skada-Bootum fyri Hønd Dana Kongs: Og med þvi hañ var miøg vel Vite boreñ, geck þetta hañs Eyrende greidlega frañ, og ad þvi bwnu, skipade hañ ad bwast til Burtferdar; Lettum vær so Akkerum, og løgdum til Hafs moot Vestre i Uppbyrian Februarii Maanadar, Ared 1666. Og byriudum i Guds Nafne vora aasetta Ferd til Austindien.

## LII. Cap.

### Gustav fiñur Prest aa Skipenu, sem hañ þeckte; Ahamula skyrest.

Þegar

Þegar Eg var komen ä þetta hid Danska Skip, san eg þar Man eirn, sem vär annar Prestureñ, hvor ed took møote Capteinenum, og Osklade hønum til Lucku med ockar Samsør: Jeg þooktest þeckia hañ æ Audlitsfalle, og heilsade hønum ä Latinu; Hañ took þvi vel, og þooktist eirneñ þera Kieñsu. æ mig; Vꝏrum vid þa samañ med ockur, äd vid hefdum. ædur sieſt og fundest i Jena i Doctor Carpzovii Hwse, sagdest hañ heita Andreas Crojer, og spurde mig ad, hvort eg være ei Land-Kron, eirn Svenskur Edalmadur? Ꝛæᴋᴋade eg þa vid mier, ad eg hafde i Leypzig þeckt þeñañ Mañ ad Goodu, fell uñ Hꝏls hønum og kyste hañ; Hañ gørde mier slijkt hid sama, geck sijdañ med mier, Captein, Ahamula, og þeim ødrum Danska Preste iñ i Cahyttuna, og bad mig segia Tijdindeñ: Spurde mig eirneñ uñ þa føgru Mey, er eg med mier hefde? Sagdest eg ei gera þad. i stuttu Mꝏle, eñ kvadst þad þo med Tijma gøra munde, sem og so skiede, og undruduſt þeir allmiog þar yfer.

Epter þetta liet Capteiñ Rosen-Krants Prestana strax fara ad kieña Ahamula Christeñdoomeñ, þo gørde Herra Crojer þad sierdeilis, þvi hañ kuñe Vallendsku: Vid hiꝏlpudunst og iafnframt ad, ad kieña heñe Hꝏ-Pijsku, so hun skilde þvi betur þad heñe var sagt. Þegar nu þañig lidnar voru 5. Vikur, þa kuñe hun ad svara til allra þeirra Spurninga, sem ꝏhrærdu Høfud-Greiñer Trwarenar: Atte hun þa ad skijrast æ Paaskunum, sem i Hꝏnd voru.

Pañ fyrsta Dag Paaska, gørde sꝏ añar Skips-Presturen Mag. Daniel Hoybech, sem var Jutskur ad Ætt, flutta Predikun til Hꝏmessu ä Pijsku, wt af Sacramentaña Handterañ sem fyri Hende sꝏ, med alvarlegre Auññing, ad Meñ skylldu af Alhuga bidia Gud fyri þessare Saalu sem uñvendast ætte. Epter Predikunena var Ahamula leidd uppꝏ Pilfared, hvar hun under þerum Himne framsagde Vidurkieñing siñar Trwar ä Vallendsku, so sem hier greiner.

" Eg Ahamula Zaine, i Mahometiskum Villudoome al-
" iñ og uppfædd, ur Stadnum Algier, fram kiem hier fyre
" Auglit þess Allra Hæsta Guds, og i Andanum nidur-
" kasta mier fyre hañs Hæatignar-Thron;. Jatande fyre
" hönum og ydur öllum hier nælægum, af swsu og O-
" neyddu og Falslausu Hiarta, ad eg alltijd upp frá þessu,
" Formæle og Fordæme þa Tyrknesku Trw, og allt þad
" sem hefur nockurt Skyn edur Smeck þar af.. Eñ þar i
" moot snij eg mier til þeirrar Soñu og alleina Saalu-
" hiaalplegu Evangelisku Christelegu Trwar. Medkeñe
" Eiñ Prij-Einañ Gud, Fodur, Son og Heilagañ Anda,
" sem hefur Skapad, Endurleyst og Helgad mig Auma
" Synduga Skepnu: Hönum gef eg mig med Saalu, Lij-
" kama, og öllu þvi eg gjöre og læt Ogjördt, lofa ad þiona
" eingvum Gude nema hönum, hañ alleina ad lofa, prijsa
" og Vegsama, vil alleina gaanga epter hañs Bodum, og
" so miked sem mögulegt er, vara mig vid öllum Syndum.
" Eg vil allrei laata nockra Mañlega Makt nie Bliñdne,
" snwa mier frá hañs Saaluhiaalplega Orde, helldur Lifa
" og Deya i allre þeirre Skilldu sem rettur Christeñdoom-
" ur af mier utheimter. Uppá þetta mitt Heit og Lofañ
" vil eg nu medtaka þa Heilögu Skijrn, og þad Hæverd-
" uga Altaresins Sacramentum, sem eru þau Tvo af miñ-
" um Frelsara JEsu Christo iñsett Sacramenta: Ejuñar
" lausañ, ad hañ vilie veita mier sijna Nædar-Adstod, og
" gjöra mig verduga Obisañlega ad grundvalla þar a
" mijna Saaluhiaalp: Legged og hier til aller nærstadder
" ydar Bæner, og vered framveiges Vitne til, ad eg er ord-
" iñ Christeñ Mañeskia, hefe slited mig ur Djöfulsens
" Kloom, og gefed mig i Guds Hendur, ur hvorium eg ad
" Eilijfu vil ei laata mig slijta. J þessum Asetninge vil
" eg blijfa i Lijfe og Dauda: Jaa, til Oendañlegrar Ei-
" lijfdar.

Ahamula fram sagde sijna Trwarjaatning miklu utþricke
legar og kroptuglegar, eñ eg hafe getad munad so leinge, eñ
þad man eg, ad marger gretu þa af Glede. Skijrneñ
fram

fram̃ foor epter hvi sem Plagsidur er til i vorum Kyrkium. Kona Magist. Heydbechs var Gud-Mooder; Var Aha-mula i Skirneñe gefed had Nafn Cathrin med Auk-Nafne Christina, so hun fyre Til-Nafned, skyllde hvi helldur minnast siins Christeñdooms. Pegar Skirneñ var afstadeñ, ha geörde Sira Crojer Packlætes-Rædu, og einig fyre Sacramentis Utdeilingune. Su skirda Cathrin medtook Drottens Kvølldmaaltiid med stærstu Andagt Kne-krimpande. Pegar hetta allt var bwed, geck had sem epter var Dagsens til Andlegra Ydkana, har Skiped um̃ Dageñ, Saker hess hæga Vedurs; hafde geinged nockud til Baka, so ad vier vonudum hvi skiootara ad komast til Goodrar Vonar-Høfda.

## LIII. Cap.

### Gustav spurdur hvørt hañ vill ectast Cathrinu, afsakar sig, Capt. gyptest heñe, halldes Brwdkauped.

Jrn Dag bar so vid, ad eg var hiaa Captein Rosenkrants i Cahyttuñe Einsamall, og vorum vid ad tala um̃ ha skirdu Cathrinu: Hañ spurde mig, hvørt eg ætlade ecke ad gypta mig heñe? Jeg svarade, ad jeg hefde hana ad søñu mieg kiæra i Hiarta minu, hun være og so hess verd, ad hun elskud være: Eñ su Ast sem eg aa heñe hefde, kiæme hellst har af, ad hun hefde leyst mig ur Prældoomenum med siinum eigeñ Peningum i Algier, og være sialf ordeñ Christeñ. Eñ fraa hvi ad iñgaanga med heñe Hioonaband, bægde mier ecke einasta mitt nærverande Asigkomulag, har mig vantade alla Hlute til hess ad forsorga eina Konu, helldur og heimug leg Trwlofan sem eg hefde geørdt vid eina Jomfrw i Pyska Lande; hvørre eg ei villde Otrwr reynast, eñ hoot eg allrei sæe hana aptur, hun hefde og med Eyde bunded sig til ad eiga eingvañ Karlmañ añañ eñ mig. Capt. broste ad hessu, og fañ eg ad hañ trwde mier ei, og took hetta upp fyre Laatalæte, eñ ecke Alvøru: Vard eg so ad leggia har til

kroptugre Bevijsinar, þar til hañ uñ sijder trwde mier, og bad mig gaanga lijted afsijdes, so hañ kyñe tala Einslega uñ þetta vid Cathrinu hina Christnu. Eg gegrde sem hañ bad. Hvernig þeirra Samtale hefur hættad vered, veit eg ecke fyrè vijst ad segia: Eñ þo komst eg ad þvi sijdañ, ad hun hefde vidurkiendt, þad eg hefde allrei nnñad i þañ Veg vid sig uñ Einka-Maal. Eñ þo hielldè hun, ad eg munde samt geora þad hier epter, og være hun þa til Reidu, ef hun visse þad være miñ Vilie, eñ kvadst nu formerkia þad munde ei verda, þar eg være ei Sialfrædur.

Epter þetta var eg kalladur iñ aptur i Cahittuna, spurde þa Capt. hvørt mier være þad full Alvara, ad eg hefde einga Gyrnd til ad gyptast Cathrinu? Miñ Herra, sagde eg: Ecke vantar mig Gyrnd nie Vilia til þess, eñ þad er mier ei i Sialfræde, so sem eg hefe adur sagt, kañ þad þvi ecke geora an Samvitskn Kreinkingar. Eg elska hana sem sialfañ mig, er og viss uñ, ad hun munde þeim Hag allvel una: Eñ hvad være þad allad, eñ ad leida Olucku yfer ockur bæde, ef eg skyllde gyptast heñe, og geora mig so ad Meinsæris-Mañe: Hun mun þad og ecke af mier heimta, vil eg þvi ei helldur koma heñe þar til. Pad er vel seger Capt. ad þier taled so Einlæglega vid mig uñ þetta Efne, og fyrst þier skiooted þvi til Guds ad utvelia heñe Mañ, þa vil eg Ræda þetta Maal vid hana. Bijd eg ydur þvi mijn Dygdarijka Cathrin, mitt Hiarta til Eigeñdooms. Raadgest nu uñ vid sialfa ydur, edur Gustav, edur hvørn þier vilied, og seged mier a Morgun hvad þier afraada ætled. Alldeilis ecke vil eg neyda ydur til ad jaatast mier, þvi þo þier þad ecke geored, skal eg samt sorga fyrè ydar Tijmañlegre Velferd þad eg maa. Hioonabands-Astieñ a ad vera frials og Onevdd i alla Stade, og Grundvølllud a liwfum Frjvilja, þvi gef eg ydur Umþeinkingar Tijma til Morguns, og leingur ef þier vilied. Pesse Capt. Epterleitun matte alijtast sem Gudleg Tilskickan. Jeg sagde strax Cathrinu mijna Meining, og liet hun sier þad vel lynda, kvad sier fielle Capt. Persoona vel i Ged, og Sra

Crojer hefde i sijn Eyru alltijd kalad miked vel um̃ hañ: Gaf sijdañ Tregdulaust Jaayrde, ad hun i Nafne Heilagrar Preñingar villde vera hañs allt til Dauda, var þetta þa Naadum Naaded og Fastmælum bunded, og þaug Degenum epter samañ gefeñ af Sira Crojer. Hier af maa siaa augliosa Forsioon Guds fyre Mañskepnuñe: Hvad munde Capteiñ Rosenkrants hafa sijdur huxad þa hañ foor fraa Kaupenhafn eñ þetta, ad hañ so margar Hundrad Mijlur burt fraa sijnu Fodur-Lande, aa Eyde-Hafe, munde taka eina skijrda Tyrk-Jũu til Eegta: So er þa allt Gude mogulegt. J Skipenu voru Hundrad Tuttugu og Priaar Saaler, sem gloddu sig yfer þessare Guds Skickun. Þeim gaf Capt. eitt Uxa-Hofud af Spönsku Vine, allmarga Hollendska Osta og Biscuit. Jeg sat aasamt Prestunum baadum og odrum Skips-Officerum, ad Brwdkaups-Veitsluñe: Var þa skoted af Fall-Stickiunum, og oñur Leifeleg Skemtan hofd um̃ Hond.

## LIV. Cap.

### Gustav helldur fram̃ Ferd siñe, kemur vid Eyuna St. Maria d' Agosta, fær Storm, kemst til Capo d' bonne Esperance, tracterast af Governieuren.

Hingad til hafde Ferdeñ geinged oss Giæfusamlega, þo Moot-Byre være aa odruhvoru; og Hiteñ þvi meire sem vier meir naalgudumst Lijnuñe, so vier urdum ad leggia af oss mest oll Klæde vor, og i Stadeñ fyre Vatn, ad leita oss aññarar Svolunar. Epter þetta saaum vær Aleingdar i goodre Siaafar-Syn Strandernar af Brasilien, eñ þar er Hætta mikel ad fara, þvi þessar Strander liggia hier um̃ Siotijge edur Attatijge Mijlur Vegar fram̃ i Siooeñ, med Blind-Skerium og Utgrynningum, sem traudlega verdur hiaa sneidt, nema med allra mestu Varud. Þeñañ Skeria-Klasa kalla Meñ aa Portugisisku Abrolhos, hvad ed þijd-

er Augna-Upplit, ad Meñ vagte sig. Vor Capt. geørde sitt bid besta til, og komumst vier so Luckulega fram hiaa þessum Haaska, þackandum siidañ Gude sijna Myskun. Under Lijnuñe (hvar vier hofdum Soolena nær þvi yfer Hvirflenum, so ad eiñ Knijfur nidur settur i Pilsared, gaf eingvañ Skugga af sier) var Obærelegur Hite, einkum þar vier vegna Logns og Byrleysu, urdum ad liggia kyrrer i Fioortan Daga, svo vier komumst ei aafram, nema hvad Straumarner raku oss nockrar Mijlur fram og aptur.

Nu took eg til ad ydrast epter þvi, ad eg nockurn Tijma foor Ferd þessa i Aust-Indien, og hugde eg munde af Hita deya: Gat ei helldur þolad Porstañ, sem hitt gñad Skips-Fookled, eñ Vatn og Vijn so volgt, ad þar var eingeñ Svolun i. Um þessar Mundir vard og Capt. Konañ aakaflega veik, so Meñ ætludu heñe varla Lijf.... Eñ Gud, sem ollu kañ vel til Vegar ad koma, gaf oss eina Nyott Æskelegañ Svolunar-Vind, sem oss alla gladde og Endurnærde: Þeirre Daud-veyku Kathrinu batnade og meir þar af, eñ ollum Læknisdoomum, so hun um siider komst til siñar fyrre Heilbrygde, hvad ed miøg gladde Mañ heñar, þvi ad Samfarer þeirra voru hinar aasiwdlegustu. Eiñ Morgun er vier þañig sigldum, saaum vier Okiendt Land, og fundum sijdañ, ad þad voru Eyarnar St. Maria d' Agosta og Martin Vazio, hielldum þa under þær, so hinar Africaniskü Strænder þvi siidur villtu oss. Þess meir sem vier nælægdumst, þvi betur saaum vier, ad þær Eyar voru settar haasum Kloppum og Kletta-Tindum. Cathrinu laangade miøg til ad koma aa Land, i þeirre Meiningu, ad hun villde nockud Endurnæra sig: Skips-Foolked Oskade þess og ämelega, ad þad mætte veida sier þar Fiska, sem Pusundum saman sveimudu um kring Skiped. Capt. liet þetta um siider leidast til, var þa settur ut Baatur, og Tiju Meñ aa, medal hvorra vid Cathrin vorum bæde: Þeir fluttu ockur til Lands, uppaa Eyuna St. Maria, var þar all-ill Lending, Skip-Meñerner veiddu þar Heilhoop af Fiske: Eñ vid kliifrudum i kring aa Eyuñe, og var þar

hvorke

hvorke Gras nie Skoogur, sierum þvi aptur til Skipsens, og sigldum bürt fraa Eyum þessum. Noottena epter hreptum vær Storm-Vidre Hgnarlegt, blandad med Reid arþrumum og Elldingum: Bilgiurnar geingu hreint yfer Skiped, so vier-vorum i mesta Haaska; Fiim Baats-Moñum og Syne Stijremañsens, kastade ein stoor Baara Utbyrdes, so þeir drucknudu strax, þad sama hefde og lijka hendt sialfañ Capt. hefde hañ ecke naad i Kadal eiñ; og hallded sier þar vid, úns hønum vard biargad. Þetta Ofvidre hiellst alla Noottena, og fram til Middeigis Dag eñ epter: Var þa allt aptur i Lag fært, þad sem i Storminum hafde aflaga geinged a Skipenu og skemst; laangade oss nu epter ad meiga naa sem fyrst til Gôodrar Vonar-Høfda, eñ vier vissum ecke neina Stormureñ kyñe ad hafa hraked oss Afvega, hvad vær redum af Fraavikning Compas-Naalareñar, og fundum nockrum Døgum sijdar, þa vier mælltum Soolar-Hædena, ad vier vorum komner Priaatijge Mijlur nær Eyuñe Tristande Cunha, urdum þvi ad snwa aptur a retta Leid. Vær komum nockud nær þessare Eyn, og gladde Foolked sig vid þad, ad vær mundum ecke vera laangt fraa Høfdanum. Uñ þetta Bil deydu i Tvo Daga Sio Meñ a Skipenu, hvørium sijdañ var Utbyrdes kastad. Capt. Kreinktest og af Sijdu-Stijng edur Take, og lagdest siwkur, hvad miøg angrade Konu hañs. Eñ Skips-Bartskiereñ geørde vid þvi Vonum skioótara, og feck stoor Laun þar fyre af Capt. Eina Noott feingum vier Poku miøg þicka, merktum þar af, ad vier mundum ei vera laangt fraa Høfdanum. Ett Stijremadur yediade, ad vær iñañ Eins edur Tveggia Daga mest, feingium Land sied, og saañdest Spaasøgn hañs; þvi Kluckañ Tijn Morguneñ epter, þa Pokuna byrte upp, og hreint Vedur geørde, var hroopad wr Mastrenu: Land, Land, Land. Skip-Madureñ sem Landed saa, feck fyri þad Flosku af Sponsku Vijne, og nockra Dryckiu-Peninga. Skøm̃u þar epter saaum vær gløgt þad haasa Fiall vid Høfdañ, sem Tøblu-Fiall heiter, sigldum so ad Lande,

og lagdum Dagen epter iñ a Hofnena.

Þar er eirn Hollendskur Kastale, hvar ed bioo eirn Governeur (Forstioore) sem gaf oss Ordlof ad koma a Land, og baud Capt. hans Frw, Mier, bædum Skips-Presunnum og nockrum af Officerunum i sin priijdilega Lyste og Allden gard, og veitte oss hid Skorugleigasta. Medañ Maal-Tijden yfersioob, liet þesse Herra-Madur kalla þangad nockra Hottentottara med Konum þeirra, og gefa þeim Indianiskt Breñevijn, eirneñ sa þeim Pijpur med Einslags sierdeilis Tobak, sem þeir kalla Busch-Basch: Þeir dønsudu og lieku svo Skriingelega fyrer oss, ad ockur Chatrinu vard nærre þvi illt af Hlaatre. Uñ þessa Lands og Foolks Asigkomulag, og Trwarbrogd, segia aðara Reysu-Bækur, hvar fyrer eg sleppe þvi.

Pañ 5. Junii Ared 1666. stigum vær aptur a Skip, og sigldum þadañ goodañ Byr i þad Indianiska Haf, J Trauste og Nafne Guds, bidiande hañ ad leida oss farsællega til Coromandels Strandar.

## LV. Cap.

### Gustav sigler fraa Hofdanum, fær laangvarande Storm, hrekst ad Obecktre Eyu, Skipid slijgur i Loptet; Niju Mañeskinr komast Lijfs af.

Nu hofdu so lided Floorer Maanuder a Ferdiñe fraa Lissabon til Capo., ad mig hafde ecke neitt sierdeilis Vondt hendt, nema hvad adur er sagt uñ þañ mikla Hita og Storm: Eñ sa goode Gud hafde eñ þa fyrihugad mier eitt sierlegt Tilstand til ad reyna mig og Trw mijna, og skal eg lysa hañ fyri þad allt. Vier sigldum fraa Goodrar Vonar Hofda, wti hid Blaalendska Haf til Cyariñar Madagascar edur Mauritius, a hvoriumj Vegi, ad Sioofarendur segia, Von se a þeim sterkustu Storm-Vindum, og þvi haia þar so morg Skip Aumkunarlega forgeinged. Ad

lidnum

lidnum 10. edur 11. Døgum, þegar vier þooktunst hvad Ohultaster, feingum vær mioote oss Nord-Nord-Vestan Vind, sem æ tijd joxst, so vier urdum fella oll Seglen, og yfirgafsunt so Skiped i Vedur og Vind, og lietum Bylgiurnar rꜳda oss. Var þa Daudans Hꜳske openberlega fyrer Augunum, og eckert annad syrna, enn ad hvør mætte qvedia annan. Þad Osbod allt sem þa ꜳgeck, af Vedre og Siꜳfargꜳnge, kann eg ei med Penna utmꜳla, og lꜳ nærst, ad Skiped munde þa og þa mölast i Þusund Parta, ellegar hvolfast um. Stundum liptest þad upp, so sem til Skijanna, stundum geck þad nidur, sem i hinn diupasta Afgrunn: Stundum var þad hædst ꜳ Bylgiunum, stundum huldu þær þad. Þesse Stormur kastade mier Eittsinn so hardt til, ad eg misse bæde Heyrn og Siovn, og lꜳ sem daudur ꜳ Pilsarenu nockrar Minutur, þar til eg raknade vid aptur. Þennan Storm linade ecke, hvar fyrer ad nockrer af Skip-Foolkenu komu hlanpande med Axer, og villdu høggva burt Mastren, ꜳdur enn Osvidred bryte þaug af. Enn Capt. varnadi þvi, og med sinne Karlmennsku og Manndooms Hørku sefade Æde Foolksins. Þetta Osvidre hiellst i Tvo Daga, so vier høsdum einga Roo: Þridia Dagenn vard lijted brukad Fock-Segled, en ødrum mꜳttum vær ecke vidkoma, allra sijst reisa stoora Mastred med sijnum Bunade, enn 20. urdu ad vera vid Stijred. Þad var Furdanlegt, hvørsu Vindurenn fleigde Skipenu eins og Koolse være skoted, so ad mig svimade. Þeir Veiku ꜳ Skipenu ꜳtty versi, þvi þeir mꜳttu ei liggia kyrrer, helldur køstudust ur Rumunum jafnoott og þeir skridu upp i þaug: Voru þeir þvi bundner nidur, sama var og gørdt vid Konu Capt. og Mag. Heylbrechs. Capt. Konan bad Innelega til Guds, einkum um Lijf Manns sijns. A Fioorda Degi lægde Stormenn, og fooru Menn þa ad gøra ad Skip-Skadanum; og þøckudum Gude hans Myskun.

Epter afstadenn þennan Storm, gørde um Nottena þess 24. Junii, so miked Haf-Blik og kyrra Logn, ad Skipped hrærdest eckert, helldur enn þad stæde ꜳ þurru Lande.

Capt. Rosenkrans og Yfer-Stijremadurenn alyktudu, eckert gott af þessu, enn letu þo ei Foolked merkia það.

Þegar byrte um Morguneñ, hroopade Vorduren ur Mastrenu Land, og allt uærre ofs. Capt. og aller sem þetta heyrdu, hlupu uppa Pilfared ad sia Landed, enn alls einginn vissi ad segia hvada Land það var, eda hvad það het. Stijremadureñ villde hialpa sier med Siookortum, enn það var hvad i moote odru. Sijdan kostudu Meñ ut Grun-Socku, og fundu mille Fimtiju og Sextiju Fadma Diwp, lögdum so nær Lande, uns ad ecke voru utan Atian Fadmar diwpt, var þa varpad Atkierum, lögdumst so i Guds Nafne kyrrer til meire Rādagiørda. Vær saum ad Land þetta var med Hædum og Biørgum, og ad a Bak vid Hæd einar gaus upp hickur og dimmur Reykur, af hvøriu vier dæmdum, ad Ey þesse munde bigd vera, og styrkte það þessa vora Meining, ad Siaafar-Stronden var þakenn Triaam. I þessum Svifum greidde Skyenn fra Svolune, so Hæden vard teken: Af einn Siookorte Yfer-Stijremañsens sa eg, ad það Plaatz, i hvørin vier nu vorum, var a midre Lijnu þeirre, sem liggur fra nedsta Hluta Madagascar til Vestare Sidu þess nyja Hollands, enn þar var þo eckert Land aftteiknad. Capt. hiellt þetta vera Obekta Ey, villde þvi kyña sier heñar Haattalag og fara i Land, hañ meinte sig og kuña aviña sier Vyrding þar med, ad hafa funded Land þetta, og iñtaka það til Abata sijnum Konge. Yfer-Stijremadureñ hvatte hañ og hier til, var þa raaded ad Roa med nockra Meñ til Eyarcñar. Capt. villde sialfur med fara, took mig med sier og Tiju hrausta Soldata, voru Sie af heim ur Holsten, Tveir Danster, og einn ur Lybek. Hañ let taka nockud af Allrahanda Naudsynlegum Hlutum i Skips-Baateñ, Sticke, Bissur, Krwlur, Pwd ur Tuñu, ferskt Vatn, nockur Flaat med Vijn, Axer og oñur Verkfære, og Imeslegt añad: Eina Kistu fulla med Nurenbergs Varning (sem Indianar og Heidner Meñ hellst gyrnast) sem hañ ætlade ad bioodá Lands-Foolkenu. I einu Orde: Vier binggumst til ad taka bæde moote Vin

Uin

um og Óvinum, epter þvi sem verda villde. Capt. Konañ villde med eingu moote epter verda a Skipenu, hvarneñ sem hañ bad hana þess, og sette heñe fyre Sioonér, ad þar hun være ei Kona Einsömul, kyñe heñe sialfre eda Foostre þvi him geinge med, audvelldlega Skade til ad falla, a einhvörn Hatt: Eñ þad gyllde eckert, hun kvadst vilia Lifa og Deya med hönum, hvad sem uppa fielle, so Capt. vard ad læta þetta ad Beidne heñar, og took hana i Baateñ. Adur eñ þetta skede, geördum vier Alþeñelega Bæn til Guds, og medtookum Sacramented. Foorum so af Stad forlijkter vid Gud, Reidubúner til ad deya ef hönum so þocknadest, komumst so med illañ Leik til Lands. Vær saaum þar af Hæd eiñe, fagur Tre, þyckva Skooga og Grosugt Land, eñ einga lifande Skepnu: Vær saaum og so Reikeñ sem fire, bak vid nockrar Smaa-Hæder, eñ villdum ecke fara so Framañer ad kaña Land þetta betur. Vær fluttum Fall-Sticked uppa Hædena, binggum uñ þad sem vera atte, og geördum þar nockrar Grafer til ad fiila oss i ef a þyrste ad hallda. Ad nockrum Tijma lidnum, voguduss Prijr Hraustér Soldatar ad gaanga a Land upp, med bladna Bissu, og laungañ Korda a Hlid hvör þeirra, geingu so hijngad og þaangad uñ krijng, komu til vor aptur, og kvaadust ei nockurs Mañs Spor sied nie fundeð hafa, nema nidur bælt Gras i einu Rioodre, lijka sem Madur skyllde hafa legid þar. Styrktust Meñ þa i þeirre Meiningu, ad Eyeñ munde bygd, og betra Land a Fialla-Bake eñ þar sem vær vorum komner ad. Eñ fyre þvi vær þöökt- umst Mañ-færer, sende Capt. Fim a Baatnum til Skipsens, og atte eñ nu ad taka Tiju Meñ a Land, og Matar-Faung til Tveggia Daga. Þegar þetta Foolk vár komed i Baateñ, og þeir a Skipenu voru ad geora ad Gate einu a Þwdur-Hwsenu, sem i Stormenum hefur kañ ske brotnad a, og Baatureñ var komeñ hier uñ Tuttugu Alner fraa Skipenu, þa flaug Skiped i Lopt upp med Ognarlegum Hvin, Brake og Stoor-Brestum, eñ þad sem epter var af þvi a Sioonum, stood i biörtu Baale: Vær a

Synise fiskum flater til Jardar af Skelsingu. Eñ þegar meste Reykurcñ leid af, saaum vier Baateñ aa Siovonum, og i Kyker eiñ Mañ Rogande, og dæmdum af Klædnuum, ad þad munde vera añar Skips-Presturcñ, sem Capt. hafde epter sendt. Capt. synde eñ nu mikla Ged-Hreyfte og Hryggleik, Hughreysste oss og bad oss fela allt Gude aa Walld og Heyndur. A. medañ naalgadest Skips-Baatureñ Syuñe, so ei var meir eñ sem Fimtiju Skref til hañs. Par sat þa Presturcñ Sra Crojer vid Stijred, og hroopade aumkuñarlega, uñ Hiaalp, þvi hønum var Omøgulegt i Land ad komast. Tveir af oss køstudu af sier Klædum, løgdust til Sunds ad Baatnum stigu upp i þañ, og reru hønum til Lands: Vær geingum til Strandar ad fretta uñ Orsøk Olucku þessarar; Af þeim 15. sem i Baatnum voru, laau 11. Aumkunarlega sundurmarder og dauder; Fiorer voru aakaflega skiemder, so þeir eirneñ deydu fyrr eñ aa Land komust; Presturcñ eiñ lifde af, þo skadadur i Andlite og aa Høndum: Eñ af þeim 86. sem aa Skipenu epter voru, komst alls eingeñ af Lijfs, og ecke saast eirn af þeim aa Siovonum finda, helldur took þad allt eirn aumkunarlegañ Enda. Pa Presturcñ sagde oss fraa, ad þar hefde fundest Gat aa Constabels-Hwsenu, gat Capt. Rosen-Krans til, ad Pwdur nockurt munde hafa falled þar aa Goolfed, og sijdañ Tobaks-Pijpu Elldur i þad dotted, og lesed sig so iñ i Pwdur-Hwsed, hvar iñe ad voru Sextaan Pusund Pund Pwdurs, sem flutigst aattu til Tranqvebar. Eñ hvad uñ þetta var og hvorneñ þad hefur adborcd, þa vorum vær nu þær Vesælustu Skepnur aa Jørduñe. Vid høfdum ecke nema faarra Daga Lijfs-Metøl, eñ vorum aa Okendum Stad, og aattum einga Von Mañlegrar Frelsunar. Pvi settum vier alla vora Von aa Guds Almætte, og villdum bijda med Poleñmæde þess sem hañs Allra H. Vilie hefde aasett vid oss ad geora.



LVI. Cap.

## LVI. Cap.

Gustav kañar Eyuna vid Fioorda Mañ: Kiemur aptur: Deya Fioorer af þeim: Færer sig i þa miñe Eyüna, og lætur þar skriberast.

VEr bundum Bæteñ vid Tvær Eykur sem stoodu vid Sioocñ, groofum þa Daudu i Sandenum, og foorum sijdañ uppa Hædena, þangad sem Fall-Bissañ var. Ef eingeñ Kveñ-Madur hefde hiaa oss vered, hefdum vier audvelldlegar eitt edur añad til Bragds teked. Eñ epter þad vid foorum fraa Capo:, vissum vid ad Capt. Konañ var Oliett, urdum þvi ad gefa vel Giætur ad heñe. Sämt knwde Neydeñ oss til, ad leita allra Bragda oss til Biargar, so vier dæum ecke af Hwngre og Porsta. Leid nu miøg ad Noottu, og villdum vær þvi bijda til þess Dageñ epter med vorar Raadagerder: Eñ gærdum oss Sæmelega stoort Hreiso i Eiñnin hyckvum Ruñe af Kvistum og Laufum Eyknaña, sem bæde var vort Geymslu og Svefn-Hws. Alltijd heldt einhvør af oss Vord vid Lauf-Skaala-Dyrnar uñ Noottena, nema Capt. Frweñ og Presturen saa færde. Uñ Morguneñ hieldt Sra Crojer Morgun-Bæner, og utlagde stuttlega þañ Tuttugasta og Pridia Psalm Davids, af lijtelle Hand-Biblin, til ad iñræta oss nockra Huggun, i þessu voru Eymdar-Stande, og herdte voru Huga ad efast ecke uñ Guds Myskun. Vær vorum nu alls Niju Mañ-eskiur, utvølldum Helmingeñ med Hlutfalle til ad kaña Eyuna, sem fyrst fiell yfer mig, þar næst Christian Paalsson Danskañ, Pridia Simon Valster af Holsten, og sijdast hañ Lybska sem hiet Johañ Martin Egan. Capt. villde ecke vera epter, eñ Kona hañs kom þvi til Vegar: Hun græt saarañ þa vid skyldum vid hana, eins og pid ættum ad gaan ga i Daudañ. Vær tookum med oss nockud til Næringar (Biscuit) i Vasa vora, Pwdur og Kwlur fyre Tiju Skot, og hrestum oss aa Breñevijne, geingum so af Stad, og eg aa undañ þeim sem Foringe. Capt. hafde lagt fyre

oss, ad þa vær kiæmum. a Hædena, a Bak vid hvoria ad Reikurenn sást, þa skylldum vier skioota, og ætlade hañ ad skioota a moote aptur med Styckenu, ef Innbyggendurner kynnu þar med ad lockast ut. Vid nædum Hæðene, þo Torvelldt veitte i gegnum Ruña og Ovegu. Jeg skaut siidan Bissuñe ofan i Dalen; eñ þar took so ækaflega under, ad Epter-Hlioodeð vard so mikeð, sem Tiju Mañs hefdu skoteð :- Kom þa og Svaared af Fall-Stickenu sem Reidar-Pruma laugt til ad heyra. Jeg skimade i kring epter Foolke, og sa nidre i Dalnum eina Giaa, ur hvorre ad Reikuren gans eins og ur Reik-Hoaf, med Elld-Flugum. Filgdar-Meñ mijner undrudust þetta, eñ eg sagde þeim þad være af Jard-Ellde, sem Orsakadest af Breñesteine i Jørdune. Vid geingum siidañ ofañ i Dalen, og fañ eg þa, ad eg hefde þess rett til geteð. Epter þad sneerum vid nockud til Sudurs, vard þa syre oss grijtt Jørd, snerum þvi aptur a Vinstre Hønd til hiña grænu Hædaña, þar var allt þaked med Lifteleg Tre, sem Aloe. Þesse Tre, litu ut sem Eikur fullar af Avøxtum, sem lijker voru Perum Asyndar, være flooum nockra nidur og smockudum, þeir voru Rauder ad Lit med svørtum Blettum, høfdu Sikur Smeck, eñ nockud Swran Keim Epterleides. Þessar Perur, ef eg a so ad kalla, svøludu vorum Þorsta; Eñ var þordum ecki eta mikeð af þeim, þvi vær vissum ei hvad heilnæmar vera mundu. Epter Tvo edur Priaa Tijma komum vær til Austur-Siidu Eyareñar, og saaum þar adra miñe Ey, og var Sund a mille, hier uñ 30. edur 40. Fadma breidt. oss virdtest hun ei vera yser Priaar Mijlur i kring; Eñ sw sem vid vorum a, virdtest ockur Tvij edur Prijslijk, eda jafnvel stærre. A þessare niju Ey nær þvi midre, mootade fyri Bockum Tveimur a Hæd nockurre til ad sia sem Hws, sett med Vidar-Ruñum og laugum Triaam. Vid Sivoeñ saaum vær nockur smaa Dijr, lijk Hierum, eñ þo nockud þickvarnare, med mioonm Høfdum, Dockblek ad Lit: Simon Valster skaut til þeirra, eñ þaug flwdu i Vidar-Ruñana sem nærstez voru, komu þo strax aptur i

Augsyn, og sooktu Foodur sitt af Jurtum heim sem þar uxu med Siovnum. Þegar vier höfdum nu funded þessar lif-ande Skiepnur, villdum vær snwa heim aptur og kúngeøra þetta Capteinenum, ef hañ kyñe vilia taka sier Bwstad a hiñe litlu Eyu, og leita þar Næringar vorrar. Eñ þa vid villdum ferdast Heimleidis, villtunst vid þañ Dag allañ og Roottena epter. Vid heyrdum ad sfñn uñ Kvollded skot-ed af Fallstickenu; sem Advorun ad snwa aptur, eñ þad var ockur ei moguleg fyrr eñ Dageñ epter, og vorum vid þa bæde Mathurfande og þyrster: Og Tveir miña Stall-Brædra Christian og Simon siwker ordner. Vid kom-um sijdañ heim til vors Selskapar: Hafde þa so tilbored, ad Adam Hermansson Holstenskur, og Christian Nielsson Danskur, voru stwngner Roottena adur af Eitur-Orme edur Poddu, so ad þeir deydu adur vid komum, þvokte oss þad hiñ mesta Skade, og þar a ofañ deydu þañ sama Dag Valster og Christian Paalsson: Eingva Orsøk visse eg þeirra Dauda nema Perúrnar, af hvorium þeir höfdu eted ofmiked 10. edur 11. Eñ vid Martin Eaan, atum ecke nema Eina, og feingum þo miklar Jñantokur þar af: Eñ ockur batnade vid Breñevijn. Þesse Fiogur Lijk groo-fum vær under Hædeñe, og var nu 4. Mnnum færra ad eyda vorum Matfaungum, eñ 5. voru epter. Adur Ott-udunst vid Jñbyggiara Evareñar, eñ nu Eitur-Orma, sem ei komu fram nema a Næturnar. Jeg sagde Capt. fra þeirre nij-fundnu Eyu, og fiellst hañ strax a ad fara þaangad, vegna þess ad þar voru lifande Skiepnur, ef þær kyñu þiena oss til Lijfs Uppheldis: Eñ þad simdest nærsta Omøgulegt þaangad ad komast, þvi Skips-Bateureñ var of-stoor, eñ Foolked satt ad stioorna honum, og þar med Sioøreñ Olgufullur. Vær geørdum Elld vid Hreyse vort uñ Roottena til ad fæla Ormana: Vakte Presstureñ og Capt. til Skiptis vid Elldeñ, ad varna þeim eitrudu Kvik-indum ad geøra Skada þeim er svæfu. Uñ Morguneñ epter binggunst vær burt wr þessum Stad, og þad sem vær ecke gatum med oss komed, af þvi oss tilheyrde, þad groof-

um vier i Jörd, og baarum Grioot a ofañ: Fylltum Vásſa vora med Biscuit; eñ baarum Vopn vor a Bakenu, og Exer i Höndum; og foorum nu sem varlegast, ad vær villtunst ecke. Capt. leitst vel a Eyuna. Eñ þar sem vid komum ad Sundenu, var breidara yferuñ, eñ þar vid adkomum fyrra Dageñ. Geingum vid svo Sudaustur med Sundenu, miockade þad þa og vard so miott uñ siþer, ad sa Lybske Soldat syndte þar yferuñ. Nu þvoktunst vær aller færer ad komast yferuñ: Eñ þa var þo Frwen Cathrin Oſær til þess. Presturen Raadlagde ad gøra litla Feriu wr Skips-Baatnum, eñ Capt. villde þad ecke, ef hañs kyñe skjdar vidþurfa til stærre Naudsynia. Sa Lybske raadlagde, ad gøra skyllde Fleka af Triaa, og foor ad hwast til þess; Syndte þa Capt. yferuñ til hañs, og hialpade hønum til þessa Smijdis; Eñ Presturen var a medañ hia Capt. Frwñe. Vid fullgeordum so Flekañ og hrundum hønum a Siooeñ, festum hañ sydañ vid Sunds-Backañ med Reyrflettudu Toge, droogum sijdañ Presteñ og Konuna til vor yferuñ, og svaafum nu þessa Noott under berum Himne. Dageñ epter sooktum vid þad sem vid epter skildum a hiñe stærre Eyuñe, og fluttum þaangad sem vid ætludum oss Stadar ad nema, var þad vid eirn fagrañ reñande Læk, i hvørium ad var allgott Vatn; A Nordare Sijdu Eyareñar fundum vær eirn Heller i Hæd nockurre, og geordum hañ so vijdañ, ad oss nægdest Rumed.

## LVII. Cap.

### Gustav bijst uñ a Eyuñe: Sa Lybske og Capt. deya.

Nu þoott vær hefdum þessu i Lag komed, og þyrstum ecke ad Ottast fyre Eytrudum Kvikindum, þa vantade oss þo samt Lijfs-Biørg, eñ Hierarner saust allstalldañ, og voru þar ad auke akaflega styggver, og lidu so Fiortañ Dagar, ad vid

feingum

feingum eingañ sied. Sa Lybske Martin Caan, sem var Einlægur og Atorkusamur Madur, og oss hafde leinge og vel þient, vard veikur i Añare Vikuñe og Andadest. Strax sem bwed var ad Jarda hañ, geingum vid Capt. ut til, ockar Utvega, komu þa Tiju edur Toolf Hierarner ad vorum fernsku Uppsprettum ad drecka og bada sig, skutum vid þa Priaa af þeim til Dauds, og þañ Fioorda i Lœred, so vid og so naadum þonum, eñ hiner flwdu. Þesse Feing ur var ockur kiærare, eñ þo vered hefde stoor Suña Peninga: Jeg batt Tvo daudu Hierana samañ a Footunum, þeingde um Bissu mijna, og bar heim a Bakenu, eñ Capt. bar þañ færda lifadne i Faangenu: Pa vid komum heim, tioodrudum vid hañ, og bundum Saar hañs, þvi vid villdum hañ skyllde lifa. Vid floonum og sundrudum þa dauðu, þvoodum þa i Sioonum, þvi Sallt var ecki til, þeingd um þa sijdañ yfer Elldstoona, þvi Ellde-Vid braft oss ecke, bruggum sijdañ til Steik af þeim, hvør oss smackade sem beste Rettur vid eitt Fursta-Bord. Vid þockudum Gude af Hiarta þeñañ Velgiørning, aatum af þessu, þo var lega i Fyrstu, medañ vid vissum ei hvad holl þesse Fæda munde, og reiknum þad sem vid aatum ecke. Dryck vantade oss ecke, þvi vid høfdum gott Uppsprettu-Vatn, sem oss svalade vel i Hitanum. Pañig lifdum vær nu haalfs Missere, ad vid añadhvørt foorum a Hiera-Veidar, edá læsum i H. Ritningu, hvøria Prestureñ Daglega utlagde fyre oss, og Hughreiste oss i vorre Einsetu. Eñ Gude þocknadest eñ þa framar ad reina oss og vora Polenmæde.

Eiñ Dag geck Capt. Einsamall ad skoda sydra Hluta Eyareñar, og skioota Hiera sem eg so kalla, þo Olijker sieu þeim, er vier høfum i Þijska-Lande, hafande Tvo Horn, Fijngurs laung mille Eyrnaña. Hañ geck hier um Mijlu Vegar, uns hañ kom a eiñ Kleit sem var i Tveñs Lage Tiju Alna haar. Hañ saa Hiera mille Klettaña, sem hañ ætlade sier ad skioota, og villde støckva af einum Klettenum a añañ, eñ miste Footaña, og fell ofañ a mille þeirra, stoost þa vid Høfud hañs, so hañ Rotadest og fell i Svijma.

erfalleñ af Siwkdoome, þvi hañs iñvortis Lijding hafde smaamsamañ af hañs Kroptnm dreiged, so hañ ad sijdustu vard ølldungis Afhollda og Magnþrota. Hippolite spurde eptlega hvad hañs Meinsemdnm olle, eñ feck allrei þad af hønum ad vita, fyrr eñ hañ Lokfins geørdest Faarsiwkur, og Hippolite þar vid miøg angradest, bidiande hañ Guds vegnaad segia sier hvad ad hønum geinge, og hønum læge so þwngt i Skape. Eñ Berthold leit til siñar Elskulegu Hippolite; og mællte a beñaň Hoatt: Mijn kiærasta Hippolite! Eg hafde asett mier ad laata fyrr Lijfid, eñ ad opeñbera ydur Ordsøk mijns Siwkdooms, eñ sijdañ eg hefe med Gaumgiæfne athugad hvørsu þier epter mijna Daga erud hin vesælasta Mañeskia i Heimenum, maa eg ei añars eñ laata ydur hana i Lioose. Eg elska ydur mijn dægelega Hippolite, og hefi elskad fraa fyrsta Augnablike Samfunda vorra, eñ allrei hijngad til þar Ord a geørdt i þeirre Von, ad eg munde yfervińa mijna Tilhneiging, eñ sem þad hefur ei viliad luckast, og eg sie fullvel ad mijn Epterlaungun er Syndlaus, þar bæde vid erum Ogypt og høfum ei Forelldra a Lijsi, helldur erum vor sialfraadande, þa vil eg heyra hvørsu ydur giedïast ad taka mig ad ydur fyri Egtamañ, hvar a moot eg uñ alla mijna Daga, hvørt helldur vid Ÿ-leingiunst a þessare Eyn, edur med Guds Hialp komunst aptur i Evropam, vil ydur førsorga, og hallda ydur fyri mijna rietta og saña Eigeñ-Kvińu med stadfastre Trw og Elsku. Hippolite braa miøg Litum vid þessa Bertholds Rædu, og svarar þañeñ: Miñ kiære Berthold! Eg hafde meint þier mundud ei leita Einkamaala vid mig, medañ þañeñ stendur a Høgum vorum, þvi sæmed hvad þar vill af verda, ef oss yrde Barna auded, eñ endtest ei Lijf til ad koma heim a Legg, mundu þaug verda þad vesælasta Foolk i Heimenum, og vid sialf mættum Gude Reikning standa fyri Saaler þeirra: Eñ i ødru Lage, ef ockur nockurn Tijma audnadest ad koma til Evropam, þa mættum bæde vid og þaug gaanga a Vonarvøl, þvi eg miste alla Aleigu asamt Fødur mijnum, og þier munud ei helldur

vera Audngur Madur, þar þier i ydar Æsku hafeð geort so margar Hauskasamlegar Reysur: Þar fyrir i hvoria Ætt sem eg horse, sie eg ei hvorsu Raad vort bæteſt med þessu Moote. Bertholð ansar heñe: Hiartkiæra Hippolite! Wid skulum ei so miøg syrgia fyri seiñe Tijmunum, helldur giøra sem Christnum byriar, og befala Gude þad Eptirkomanda: Þar fyrer athuged nu einaſta hid Raalæga, þvi sa Allra Hæsste Gud hefur leidt ockur til samans af eiñe heilagre Orsøk, til ad sijna þar med siñ Almaatt, ad vid aumu Syndar mættum raada med oss Hiwskap, þvi skulum vid og eirneñ fylgia hañs Wilia: Eñ hvad þier erud Ahyggiusullar vegna þeirra Stundlegu Hlutaña, ef skie mætte vid nædum eitthvørt. Siñ ad komaſt i Evropam, þa vited fyri vijsſ, miñu kiæra Hippolite, ad eg er Eigande ad so miklu, ad vid þurfum ei ad kvijda nockre Naud; Og med þvi ad Peningar koma oss ei ad Hallde a Eyu þessare, hefi eg ei hyrdt ad greina ydur þar fraa; Eñ gaanged nu i mitt Geimslu-Hws, og opned þar Hyrdslurnar, so munud þier fiña ad eg lijg eingvu, þvi þeir gømlu Eyareñar Iñbyggendur hafa oss epterlaated mikil. Audæfe: Og med þvi þeir voru ydar Landar, so vil eg gefa ydur þad giørvallt, og hef þo sialfur nóog epter af þvi strandada Skipe, er geimt liggur i voru Jardhwse, og meige þier sia þetta nær ydur lijkar. Fyri þvi, kiæra Hippolite! Yfirveiged nu hvørt þier vilied giøra miñ Wilia, edur laata mig af Elskuñe wt af deya. Hippolite took nu i Hønd Bertholds all-blijdlega og mællte: Þar sem þier Bertholð kuñed ei med ødru Moote heilbrygder verda, þa vil eg gefa mig a ydar Vilia, og ei vera Guds Vilia mootsalleñ, med þvi Moote þier binded Enda a Ord ydar, ad yfergefa mig hvørke hier edur i Evropa, helldur hallda mig fyri ydar rietta Egta-Kviñu, og veita mier Frañsære. Berthold kyſte heñar Hendur, og bad hana ad vera þess fullør uggva alla sijna Lijsdaga: So gefi þa Gud, sagde hun, ad þier meiged þa komaſt til Heilsu snarlega; Eñ ydur satt ad segia, þa hefi eg fyri laungu elskad ydur vegna ydar Gudrækne og Mañ-

dauðar. Þesse Ord mœattu meir hiœ Berthold eñ þoott verid hefde Lœknisdoomur allrar Veralldareñar, hvar fyri hañ vard skioott heill Heilsu siñar.

Hippolite bar fyri hañ tockada Avexte, eñ hañ neytte þess og svaf af uñ Noottena: Eñ Dageñ epter var Berthold sneiña œ Footum, og leidde Hippolite yfer Fœar-Hlute siña, eñ heñe þoott mikils uñ verdt og sagde: Gud hiœlpe ockur ad nœ eitt Siñ til Christieña Landa, so hœfum vid ei Orsøk ad klaga yfer neinum Skorte edur Biargrœdisleyse: Og þar med endadest þad Fiñta Ar, ad Berthold vard Heilbrygdur.

Eñ sem þad Siotta Ar byriadest, frœ þvi Berthold var komeñ œ Eynna, høfdu þaug Allareidu bwed til siins Brwdkaups, þa leidde Berthold siña Hippolite œ sliettañ Voll wt fyri Skanseñ, took i Hond heñar, leit siinum Augum til Himens og mœllte: Almœttuge Gud! Þu sem sier og heyrer alla Hlute, Fyri þiinu H. Auglite lofa eg ad taka Hippolite til miñar Eigeñ-Kviñu, og andsiina heñe Trwskap œ medañ eg Life. Hippolite took þa til Orda: Og eg lofa hier eirneñ, Þu Allra Hœrste Gud, ad taka Berthold fyrir Egtamañ, Elska hañ og rœkia alla miina Lijfdaga. Þar epter Mynntest Berthold vid siina Festar-Meyu og sagde: Sœ Eine og Þreñe Gud, hallde yfer oss framveigis siñe Nœad og Blessan: Og ef hañ lienar oss Hioonabands Avoxt, þa gefi hañ ad vid meigum þañ sama uppfoostra honum til Dijrdar, og ef honum so þocknast ad vid nœum einhvørn Tijma ad komast til Evropam, hvar til Hippolite sagde eitt Þrefallt Amen: Og til Alyktunar swngu þau bœde eirn fagrañ Lof-Psalm. Sijdañ stoodu þau upp og geingu til Hybijlaña, neytande þess sem tilreidt var med Þacklœte, og gloddu sig af Hiarta, fœrande Gude þar epter Sidvanalegt Kvolld-Offur, geingu siidañ til Hvijldar, og svœfu samañ þa fyrstu Noott sem Madur og Kona.

Upp frœ þessu lifdu þau œnœgd til samans, og tooku sig med þeim goodar Aster. Berthold hafde Starf sitt œ Økrum wte med Villumañenum og Apaköttunum, eñ ød-

ruvvori

ruhvoriu foor han a Veidar Fugla ednr Fiska, og kom allrei Toomhendtr aptur. Eñ Hippolite feckst vid Ellda-Størf, og hvad añad sem geora þurfte i Hwsenu: Og þegar Madur heñar var wte staddur, skiemte hun sier vid Skiøn-Kopp, er i þañ Tijma talade so skijrlega ad Furdu gegnde. Hippolite lærde af Boonda sijnum ad tala Eingelsku og Hollendsku, ef hun sijdar meir kyñe ad komast i Evropam, þvi hun hafde eingva Gyrnd til ad vera i Portugal, nær hun visse af Bertholð, ad Konur voru betur lætnar i hañs Fødur-Lande eñ heñar.

Pañeñ bigggu þau nu samañ i Guds Otta, og høfdu vissa Bænageørdar-Tijma, halldande jafnañ Siøunda hvørn Dag helgañ, med Guds Orda Lestre og Psalma-Saung: Eñ eiña mest gløddust þau af þvi, ad hiñ villte Madur fiellst a þeirra Sid, og lagde Kapp a ad nema þeirra Lærdoom; Og sem hañ under Utgøang þess Siøunda Arsins hafdi teked þa Framfør, ad hañ lifde sem Christeñ Madur, bad hañ iñelega ad meiga faa Skijrn. Bertholð geørde sem hañ beidde, og skijrde hañ med Nafne Frænda sijns Wolfgang. Hañ villde nu ei sijnast Christens Nafns Overdugur, helldur audsijnde hañ Daglega meir og meir Trw og Hollustu, af hvørm Bertholð gladdist, ad hafa eitt lijted eñ þo Gudrækeð Heimile.

Nu sem það Attunda Ar iñgeck, heldt hañ sem Vane til er eitt Glede og Jubil-Ar, og er hañ hafde loked Tijdum, var hañ wte asamt siñe Kviñn til Forlystingar i goodu og blijdu Vedre: Pa høfdu hañs Apakietter sem iñe voru, framed eirn undarlegañ Leik, þvi þeir urdu varer vid Kvikende eitt under Goolfeun, sem kallast Morghos og vellsest uñ krijng i Jørduñe sem Molldvarpa: Peir groofu eina diupa Holu til ad na þessu, þar til þeir uñ sijder komu under Sængur-Herberged, hvar þeir groofu upp eirn gulañ Sand under Bordenu er stood þar a Fiolum. Vid þetta Apakattaña Starf fell allt uñ Koll er Iñañhwss var, og allt fillltest af Rike: Eñ er þaug Bertholð og Hippolite komu iñ ad Kvølde, og sau þetta Athæfe, vard Bertholð

biſtur og barde Apana þar fra med Staf, eñ Hippolite leitadeſt vid ad koma þeſſu i Lag aptur, took hañ gula Sand er a Goolſenu la, og ſaa ad hañ var yfred þwngur; Myrkt var iñe, og geck hun þvi til Dyra ad ſia hvad þetta var, eñ hun ſnere braadt aptur med Glede til Mañs ſijns, og ſpurde hvadañ þeſſe Sandr være hønum komeñ? Bertholld kvad hañ munde þar vered hafa til Forna: Hippolite ſpyr hvert hañ viſſe hvadañ þetta være? Berthöld ſvarar: Nei, þvi hañ kvadſt allrei uñ ſijna Daga hafa ſied þvilijkt: Eg veit þad geörla, ſegir Hippolite: Þetta er hiñ beſte Gull-Sandur, ſem Meñ fa kuña fra Eynñe Peru; Fader miñ hafde ſodt añ a Skipe ſijnu, og talde þad ſijna meſtu Audlegd. Bertholld fañſt miked uñ þetta, og took upp fleire Bord wr Hwſs-Göolſenu, hvar hañ feck ſo miked af þeſſum Sande ſem nam 100. Punda Pwnga. Hippolite gladdeſt vid og mællte: Miñ kiære Madur! Hvorſu hefur þu launad þijnum Apakøttum? Bertholld broſte vid og ſagdeſt munde forlijkaſt vid þa aptur, hvar epter hañ gaf þeim Mahis og wtpreſſadañ Vökva af Eplum ſo miked ſem þeir villdu. Hippolite ſafnade þeſſu ſamañ a medañ, og liet i Seck geördañ af Segl-Dwk. Bertholld ſagde þa til heñar: Mijn kiæra Hippolite! Værum vid nu i Evropa, mundum vid hallðeñ þad rijkaſta Foolk, þar ſem þeſſe Sandur gagnar oſs ei meir a þeſſare Eyu, eñ hver añar Fiøru-Sandur, og mijn Jardar-Aldine eru mier þarfare eñ allt þetta Fe. Eñ nu hid fyrſta ſkil eg hvad hiñ daude Valmandaras hefur ſtrifad: Ad ſo ſem Gud Ottadeſt, og jardade ſiñ dauda Lijkama, ſkyllde ei hafa þad Olaunad.

Stuttum Tijma þar epter, geördeſt Bertholld miøg hrigg ur, af þvi hañs kiæra Hippolite vard ſiwk, ſo hana væmde vid allre Fædu, og heñar Lijkame þrwtnade, ſo ad Bertholld Ottadeſt hun munde fa Vatns-Sijke, og er hañ hafde eingeñ Raad heñe til Hialpar, akallade hañ Gud uñ heñar Heilbrigde, og ad faum Maanudum lidnum, batnade Siwkdoomureñ, þvi hun vard liettare, og gladde Bertholld med ungum Syne. Hañ took Barned i Faang ſier og

kyſte

kyfte þad, geck þvi og einenn i Fooſtru-Stad, þar til Moodurenn feck Styrkleika til ad veita þvi Umſiaun. Berthold villde ei lǽta Barn ſitt leinge Oſkiirt vera, helldur veitte hann þvi ſiaalfur Skiirn, og nefnde hann Gotthliif, ſo hann þeſs helldur mǽtte Endurminnaſt alla ſijna Daga, hvørſu Gud hefde Undrunarſamlega hiaalpad hønum.

Enn ad 6. Vikum lidnum, þegar Hipp maatte ſiaalf annaſt Barn ſitt, var Berthold Eitt Sinn geingenn aa Fugla-Veide, þa kom Wolfg. hlaupande heim af Akreunum, og leit ade ad ſijnum Hwſs-Boonda, þvi hann kvad þar vǽre komner vid Eynna enn aa nij nockrer af ſijnum Løndum. Hipp-ol. vard aakaflega hrǽdd hier vid, og ſagde hvar hann mǽtte finna ſinn Hwſs-Boonda, hann ſkundar þaangad, og ſeger nockrer ſijner Lands-Menn vǽru komner. Berthold braa vid ſkiott, og ſpyr, hvar edur hvørſu marger þeir vǽru? Wolfg. ſvarade: Ad þeir vǽru i ſama Stad ſem hann Ford um Daga ad kom, og hefdu þeſſer i Ferd med ſier nockra af ſijnum Ovinum þeim ſvørtu, hvøria þeir villdu drepa og eta ſijdann: Enn aller til ſamans vǽru þeir 10. edur 12.

Berthold vard enn hrǽddare, er hann heyrde þeir voru ſo marger, enn braa bo vid og liet Volfg. ſǽkia Biſſur Tvǽr, og lǽſa Gardenum Rammbyggelega, ſiaalfur hafde hann med ſier 2. Biſſur og eins margar Piſtoolur, hvøriar hann allar hlood med ſkørpum Høglum og Kwlum, er ſkornar voru i 4. Parta, og feck Wolfg. ad bera þǽr epter ſier, lǽddeſt ſo þaangad er hann bǽde mǽtte ſaa ſkiilt ſier, og ſied hvørſu marger þeir vǽru: Enn er hann naalgadeſt þa, ſaa hann ad nockrer guler ad Lit, hvilijker ſem Wolfg. var, hofdu i Hel ſleiged þa ſvørtu, adrer hiuggu þa i Sticke, enn ſumer kveiktu Elld ad ſteikia þar aa Villebraad, þar med ſaa hann ad 8. voru lifande, og hvatte þvi upp Hugenn, took til ſinnar Biſſu og ſette aa Høfud þeim, hvad ed gørde mikenn Okirrleika, þvi nockrer af þeim er Skoted hitte, fiellu dauder nidur: Hiner adrer runnu undann med Oſſa-Hlioodum. Berthold var ſtrax aa Hǽla þeim med adra Biſſu, og ſkaut enn fleire, ſo 3. voru epter ſem hlupu til Kiǽnunnar. Bert-

 hold

hold baud Wolfg. ad hlaupa eirn eigeñ med Vissu og veria þeim Kiænuna, eñ Wolfg. geørde ſo, og gaf Einum þeirra ſoddan Heilſu med Viſſuñe, ad hañ gleymde ad ſtanda upp aptur: Bertthold lagde ſiœlfur eiñ ad Velle. Nu var ei nema Eiñ epter ſo Foot-hvatur, ad Bertthold mœtte ei nœ hønum, bad þvi Wolfg. ad ellta hañ, Wolfg. geørde ſvo, brœ vid ſem eiñ Jagt-Hundur, þar til hañ gat ſied til Hiüs, og kallade til hañs œ þeirra Moodur-Mœl, ad hañ ſkyllde ei undañ reña, þvi hañ þyrſte voćkud vid hañ ad tala til hañs eigeñ Sagnsmuna. Þegar Villu-Madurin heyrde ſitt Moodur-Mœl, ſtanſade hañ vid, og beid þar til Wolfg. eggiade hañ ad geſaſt upp; þvi ef hañ villde veriaſt leingur, munde hañ brœdt fara œ ſomu Leid, ſem hiner hañs Landar, eñ giæfeſt hañ upp, munde hañ fyre hitta eiñ goodañ Herra, hiñ Villte-Madur var leinge Tvijlrœdur, hvad hañ ſkyllde til Bragds taka, eñ þegar Wolfg. took ad iña hønum, hvørſu goodur Hwſs-Boonde þar være, eñ hinum Omsgnlegt til Undañfæris, þar Kiænañ væe Allareidu iñtekeñ og hañs Lands-Meñ dauder. Nu ſem Wolfg. nœl gadeſt hañ, ſpurde Villu-Madureñ hvørſu hañ være þœngad komeñ, og er Wolfg. ſœ hañ gløggvara og heyrde hañs Mœlfære, þeckte hañ þar Broodur ſiñ, geſande ſig tilkiña fyre hønum, og œſtiſte hañ ad ſilgia ſier til ſijns Herra, hiœ hvørium hañ ſkyllde hafa gooda Daga. Villu-Madureñ ſilgde nu Broodur ſijnum epter, ſem kom hlaupande til Bertthold, og mællte: Þeſſe er miñ yngre Broodur Herra, geør hañ og eiñ̄ñ Chriſteñ. Bertthold hloo ad og mællte: Pad mœ eg ei geøra, helldur Gud. Villu-Madureñ kom þar eiñeñ, og ſiell œ Fioorar Fætur, eñ Bertthold baud Wolfg. ad reiſa hañ upp, loſande hønum ølln føgru, hvad hañ og geørde. Siđañ liet Bertthold þa geøra eina Grøf, og varpade þeim Daudu þar i, epter þad ſettuſt þeir i Kiænuna, ſem bæde var betre og ſtærre, eñ ſu þeir œdur høfdu, fluttu hana i krijngum Eyuna, og geørdu þar faſta, eñ Bertthold geck heim, og let vel yfer, ad ſier hefde bœtſt eiñ Pienare. Hippolitie vard glød vid ad

ſka Mañ ſiñ heilañ aptur komeñ; þvi alla þa Stund þetta ſtood yfer, var hun miøg Ottáfull, og bad Gud uñ Hiálp: Eñ hun undradeſt yfer Wolfg. Hollustu, og kvadſt alltijd hafa vered miøg uggande uñ, ad hañ ſnereſt i Lid ſiña Maña edur Landa-Bwa, ef hañ þa ſæe. Berthold kvadſt þad ei Ottaſt munde, eñ nu vil eg ſeger hañ, kieña høñum uppa Biſſu, ſo hañ gete mier Lid veitt ef aliggur.

Midt i þeſſu kom Wolfg. med Broodur ſiñ, eñ Berthold kiende høñum hvørneñ med hañ ſkyllde fara, og venia a añad Hattalag Wolfg. geørde þetta gladur, og a ſtuttum Tijma vandeſt hañ ſvo, ad Berthold fagnade þar yfer, og lagde nu meſt Kapp a, ad kieña Wolfg Skot-Adferd, a hvad hañ var æred Tornæmur og hrædduur fyre Biſſuñe: Ja, Brooder hañs hafde valla Hug til ad ſia Biſſu, þvi hañ Ottadeſt ad Elld-Slaged munde leita a ſig ſo ſem hañs Lands-Meñ, hvørra Oſarer høñum voru miñeſſtædar. Berthold athugade nu, hvørſu Haſkaſøm ad være Koma Villu-Mañaña, ef þeir kiæmu þar med nockurn Styrk, þeſs vegna leitade hañ upp nockra Hæd, ſem var gagnvart Jñgañgenum, a þa Sijdu: J ſama Stad biggde hañ ſier lijteñ Skans, og feſte þar þaug 4. Fall-Stycke, ſem fundeſt hofdu epter Portug. og reiſte þar hia lijted Vakt-Hws, i hvøriu Wolfg. matte hvøria Natt liggia, og taka Vara a ef nockud kyñe ad Lande ad koma vid þa Sijdu Eyareñar, hañ hlood Stickeñ med Høgl og Lood, hvar epter hañ var Ohultur uñ ſig, þvi þoott þar kiæme marger Villu-Meñ, matte ſkioota þa til Grña, adur þeir feſtu Foot ſiñ a Lande: Þetta geck ſliootl af med Tilſtyrk hañs Þienara: Og þañeñ Endteſt þad Attunda Ar.

Nu byriadeſt þad Nijunda, og þa ſauſt Merke, ad Hippolite var ei Einſømul: Þau atlludu nu ſameigenlega Gud, ad hañ villde ſenda heim eitt Chriſted Skip, med hvøriu þaug komaſt kyñe i Evropam.

Wolfg. Brooder lagadeſt nu meir og meir, og lagde af ſitt Villu-Ædе, þoott hañ være ei ſo audlærdur ſem Wolfg.

hafde vered. Hipp. vard braadt þár epter liettare, og gladde Berthold med eirne Doottur, hvøria hañ skijrde og nefnde Christiana. Eñ aa medañ ei maatte trwa Villu-Mañenum til ad giøra nockurt þad sem Verk-Lag var i, maatte hañ vakta þañ unga Gotthlijf, og þegar Christiana dafnade, ad bera hana aa Arme sier sem Barn-Foostra: Þa bar so til Eitt Siñ, er hañ var ute staddur med þa litlu Christiana, ad hañ leit eiñ Smaa-Fugl nærre sier, hvørn hañ villde faanga lifande og færa sijnum Hwss-Boonda, þvi hañ hafde marga Fugla, aa hvørium Vængerner stitter voru i Gardenum, hvørier og eirneñ sig Pørudu, og aatu Egg sem Hænsne. Villu-Madureñ leggur Barned nidur og ellter Fugleñ: Eñ aa medañ kom eiñ stoor Villu-Ape, greip Barned, og klifrade med þad upp i Trie, Barned æpte aumkunarlega, so Berthold og Hippolit. komu ut ad siaa hvørin þetta giegnde: Eñ vid þessa Syn braa þeim miøg illa, so Berthold hiet ad skioota þañ Villta, nema hañ næde aptur Barnenu: Hañ skundar iñ, tekur sier Kørf fulla af Mahis, bad sijdañ alla vijkia fraa, og kastade þessu Mahis þar nidur, eñ lietst siaalfur burt gaanga, og læddest Bak vid Eikurnar. Aparner komu skioott, og aatu þetta graadugleg, hvad þegar hiñ stoore Villu-Ape saa, klifrade hañ eiñeñ nidur nu Treuu, lagde Barned hiaa sier, og took ad eta med hinum: Villu-Madureñ spratt fram og greip Barned, komst þo ei vel fraa Apa-Kottunum, þvi þeir kloorudu hañ, firr eñ Berthold skaut einu blindu Skote i Hoopeñ so þeir tvijstrudust sundur: Eñ Forelldrarner tooku vid Barnenu, og þøckudu Gude sem þad frijad hafde. Eñ Villu-Madureñ hatade hiedañ af Apana, og lagde Allrahanda Vijgvielar fyri þa.

Berthold hafde nu Gnægt af Eggium fyre Børn sijn, eñ var þo huxande um, hvørsu hañ mætte faa Mioolk handa þeim, hvar til Wolfg. og hañs Brooder kiendu hønum good Raad, þvi þar voru aa Eyiuñe Einslags Dyr sem Berthold hafde opt skoted og feinged þar af goodañ Mat: Þesse Dyr voru þvilijk um Høfuded sem Geitur i Evropa, eñ

stærre

stærre ad Skapnade; Þau blaudu Dijrenn høfdu jafnann Spenana fulla med Miolk: Af þessum veiddu þeir fyrst nockur lifande i Snørum, og binggu sijdann til eina Gyrding hvar þau voru innlætenn. Þegar þesse ungu Dijr uxu upp, fæddu þau aptur adra Unga sem geørdust so tamer og spaker, ad þau giarnann lietu sig miolka: Enn Hippolite geørde Osta af þeirra miklu Miolk, sem Berthold fellu vel i Geed.

Vid þess Nijunda Arsens Utgæng, var Wolfg. Brooder i þvi Stande ad meiga skiiraſt, og er Berthold hafde nockrum Sinnum freistad hanns, enn funded hann diggvann og trwann, kiende hann hønum einnenn ad skioota, so bæder þeir Bræður geørdust gooder Skot-Menn.

A þeim Fyrsta Dege þess Tijunda Ars, hiellt Berthold epter Sidvana eina Packlætis-Hætijd, og skijrde Wolfg. Broodur, Hippol. villde vera hønum fyre Gud-Fedgin, og gaf hønum sijns Fødurs-Nafn Joseph, hvar vid hann miøg gladdest og helldt vel Trw sijna. Skømmu þar epter vard Hippolite lettare ad 2. Børnum, sem deydu strax epter Heilaga Skiirn.

Berthold hafde nu æ hvørre Noottu Tvær Vakter ute, til þess ef Skip kiæme þar nærre, þa mættu þau vita ad Foolk være æ Eyunne. Wolfg. var æ Skansenum hiæ Stickiunum, og tendrade hvøria Nætt Vakt-Elld; sem Menn kunnu længt til ad sieæ i Hafenu vid þa Sijdu Eyarennar. Joseph i Annann Stad mætte øllum Noottum vera vid Sieæfar-Hamra þa sømu er Bertholds Skip hafde vid strandad, og kiuda þar Vita, Sioofarendum til Vidvørunar. Bæder þeir Bræður høfdu lijted Hreyse ad liggia inn i.

Nu bar so vid eina Noott i miklu Stoorvidri, ad Wolfg. kom hlaupande fræ Skansenum heim til Bæarens, og vakte Berthold upp med Skote, Berthold heyrde þetta og bræ vid skioott, ad forvitnast hvad þetta være. Wolfg. kvadst heyra Skothrijd mikla i Hafenu, enn Berthold took Klæde sijn og geck til Skansens: Enn æ Vegenum heyrde

hañ Allareidu nockur Skot, og ſagde til Wolfg. ad þetta være ei Villumaña Skip, helldur Evropæiſkra Maña, ſem væru i Siœfar-Naud ſiadder og þyrftu Lidſemdar vid: Eñ er hañ kom œ Skanſeñ, heyrde hañ þeir ſkutu hartnær œ hvorre Minutu. Berthold tendrar nu eitt Sticked og hleypte af, hvar vid þeir i Hafenu ſkutu eñ þa meira, eñ Berthold baud Wolfgang ad taka þañ miña Bœt, og roa med Broodur ſijnum fram til Skipſins, ſo ef þeir lidu nockra Naud, ſkyllde hañ ſœra þœ til Lands, og under eins œviſſa Skipverium, ad þeir ſtijge ei af Skip-Fiol, fyrr eñ Forſtioore Eyareñar þad leyfde, þvi añars munde hañ ſkioota þœ bradt i Sioo. Berthold ſkaut ſmœmſamañ, ſo Skipveriar ſkylldu meina ad fleira Foolk væri œ Eyuñe, og þeſs helldur aptra ſier Laudgaungu, þvi hañ Ottadeſt ef þetta kyñu ad vera Spanſker, hvørier optaſt plaga ad launa þeim Illu, er œdur hafa þeim Lidſiñe veitt, og jafnvel myrda þœ, ef þeir fœ Yferhønd. Wolfgang geørde hvad hañs Herra baud: Eñ er hañ komſt i Rœnd vid Skiped, og nœde Tale vid Foolked, merkte hañ ad þetta Skip var Naudlijdande, og æſkte ſier Hiœlpar hid ſnarꝛaſta. Wolfg. baud þeim fylgia ſier epter, og ſo villde hañ viſa þeim i eitt roolegañ Stad og kyrrañ, hvad og ſkiede, ad þeir løgdu ad Lande i eina gooda Høfn, hvar ei grandade Sioor nie Vindur, og køſtudu Atkierum og lofudu Gud fyri ſitt Frelſe. Wolfgang took þeim Vara fyrer, ad rœdaſt ei til Landgaungu, fyrr eñ þar uñ være Ord geør i mille Forſtiooraus og þeirra, þvi añars være Lijf þeirra og Skip i Vede: Þeir jœttu þvi, eñ Wolfgang ſnere heim og inte Hwsboonda ſijnum hvad geørſt hafde. Sijdañ geck Berthold þangad ſiœlfur, og liet ſijna Pienara lijſa fyri ſier med Bliſum, og kallade til Skipveria œ Portugiſiſkt Mœl, þvi Wolfg. hafde ſagt, ad nockrer væru þar œ Skipenu, er þad Mœl tølndu. Hañ baud ad 3. Meñ af Skipenu kiœmu til Fundar vid ſig a Bœt, hvøriun hañ auglijſte ſig ſendañ vera frœ Forrœda Mañe þeſſarar Eyar, til ad veita þeim goodar Vibtøkur, og forvitnaſt hvar

med

med hañ mætte sijna heim nockurn Beina. Þeir 3. Sendemeñ höckudu heñañ Goodvilia, og bædu audmiwklega ad þeir mættu i Land koma ad bæta Skip sitt, þar med sœ fyrer Ærnañ Betaling nockrar Vister, ef soddañ være fyri Hende, og ferskt Vatn. Bertholb kvadst vilia bera þetta fram fyri Forstiorañ, og efade i eingvañ Mata ad hañ munde gegna vel þeirra Naudsyn, nær hañ vita feinge hvørrar Þioodar þetta Skip være: Sendemeñ kvadu þetta være Hollendskt Skip, er asamt ødrum Flotanum hefde wtlagt fra Batavia, eñ vorded vidskila vid hañ fyri miklu Ofvidre: Og nu so snart er þeir hefde bætt Skiped, villdu þeir hallda heim til Hollands. Eñ sem Bertholb feck þetta ad heyra, mætte hañ valla bindast fyri hañ Føgnud er hønum kom til Handa med þessu Skipe, eñ liet þad þo ei a sier merkia, helldur lietst hañ vilia flytia Eyrende þeirra fyri Forstiorañ, og bad þa hafa Bidlund uns hañ kiæme aptur ad gefa þeim vijst Svar. Hañ snere sijdañ heim med Joseph, eñ liet Wolfg. bijda hia Sendemøñunum: Og er hañ kom heim, fañ hañ Hippolite, sem mi og aumkunarlega la med Børnum sijnum a Bæn til Gu ds, þvi hun fylltest Hrædslu af þeirre Ognarlegu Skothrijd er heyrst hafde, eñ Bertholb fell uñ Hals heñar og mællte: O mijn allra kiærasta Hippolite! Gud hefur med þessu Ovedre lated sijna Nadar Sool uppreña yfer ockur, ad vid naum ad komast i Evropam, þvi hier er komed vid Eyuna eitt Hollendskt Skip, er vorded hefur fyri Skada, og vill med þad Fyrsta hallda til Hollands. Hippolite sieck Tar af Augum fyri Fagnadar Saker og mællte: Gud hefur þo heyrt vora aumu Bæn, og audsyndt oss sijna Nad. Bertholb sagde heñe med færsiu Ordum hvad i Efne var, og kvadst verda ad vitia þeirra aptur, og færa Svar fra Eyareñar Forrada Mañe: Geck so til Sendemaña og tiade þeim ad Herrañ hefde leist þeim Landgaungu med so Moote, ad þeir ei slæu sier vijdar wt eñ uñ þad Plaatz er hañ fyri mællte; Eñ hvad ahrærde Skips-Adgerd og añañ Fararbeina, skyllde ad Morgne verda uñtalad,

talad, þvi þeir mættu vera vísser um hañs Goodvilia.

Sendemeñ þöckudu med fögrum Ordum þessa Raad, viku til Skipsins aptur og iñtu glader allt sem fared hafde. Formadur Skipsens geck vel epter, ad eirn og sierhvör skyllde kyrru fyri hallda i þeim Stad er til var skipad: Tooku nu Skipveriar a sig goodar Naader, þvi þeir hofdu eingva Værd hast i nærstu Tvær Nætur, og þöckudu Luckuñe, ad hafa naad so goodum Stad.

Berthold med Pienurum sijnum vaktade uppa, ad Skip-Veriar skylldu ei of-nærre koma sijnum Bwstad: Eñ sem Dagur var, took Berthold a sig añur Klæde, so ei mætte audvelldlega kieña hañ ad Frysta Bragde, geck so til Strandar med baadum sijnum Pienurum, og spurde epter Formañe Skipsens, af hvörium hañ villde Tal hafa vegna Forstioorans a Eyuñe, og var hönum filgt þaangad er hiñ var fyre i einu Tiallde. Berthold heilsar hönum hlijdlega a Hollendsku, og bad hañ segde sier hvörs hañ þyrfte vid. Eñ Berthold var so vel starsijnt a Skip-Herrañ, sem hinum aptur a Berth. og mætte so virdast, sem þeir munde firr siedst hafa, hvar fyre Skip-Herrañ took til Orda vid Berthold: Miñ Herra er vissulega iñfæddur i Hollande, epter þvi hañ talar so vel Maaled: Berthold kvad ney vid, og sagdest vera Eingelskur, eñ mier virdest sem eg optlega til Forna hafe sied miñ Herra, og ef þad Merke slær ei Feil, er eg sie a hañs Andlite, þa hefur hañ eitt Siñ vered staddur i miklum Haaska fyre Goodrar Von ar Höfda, med einum sijnum Ættingia: Skip-Herrañ kvad Jaa vid. Berthold geck nær hönum og mællte: Þecker hañ þa ei siñ forna Vin og Mootlætis Stall-Brodur, er aasamt hönum a hañs Fodur-Skipe hafde eitt Vodalegt Lopt-Hlaup, (þvi þetta var saa hiñ same Wolfg. sem epter sijna Fyrstu Ohappa-Reisu suere heim aptur, eñ er hañ hafde ei Fie sier til Vidurlijfes, breitte hañ epter Fodur sijnum, og gaf sig i Siöo-Ferder, þar til hañ Lofsens vard Formadur Skips þessa, sem hiet Gallovay) Wolfg. þeckte nu siñ Vin, hlioop ad hönum med utbreiddum Örmum

um so mælande: O! Miñ allra kiæraste Vin og Brooder, hvørt ert þu eñ þa a Liiffe, þar bæde eg og aller þiiner hoffum fyre laungu harmad þiñ Afgaung. Berthold hraut Taar af Augum, og vard ei svo fliott til Svars, eñ er hañ riede vid sig, mællte hañ: Miñ einka Vin, Gud hefur Undrunarsamlega leidt mig a þessa Eyu, og halldid hier vid i 10. Ar; so eg sie nu ad fiña miñ allra besta Vin, og hiaalpa hønum Naudstøddum; og naa ad komast med hønum i mitt Fødur-Land, þvi bæde eg og miiner hafa leinge þreid epter þeirre Stundu, og treysse eg nu ad miñ Kiære Brooder, fullnæge þessare miñe Fyrstu Beidne, hvar a moot eg, sem Forsiioore Eyar þessarar hiñar Færsælu, Vil hønum i tie laata þad hañ Naudsyniar af Matar-Faungum og ødru þvi er til Skipsens Adgeerdar þarf an nockurs Betalings. Wolfg. þoolte mikels uñ verdt, og bad hañ sitia hiaa sier medañ hañ i stuttu Maale iñte hønum hid liioosasta af siinum Høgnum siidañ hañ kom a þessa Eyu. Berthold bad Wolfgang ad koma heim med sier og sia sitt Hwss-Foolk, eñ hañ liet sier þad vel liika, og sende Berthold siñ Pienara a medañ, ad aviissa Konu siñe, ad hañ munde braadt fylgia siinum betsta Vin þaungad, hvar fyre hun skyllde vera til Reidu ad veita hønum þær betstu Vidtøkur sem Efne voru a. Berthold took Wolfg. vid Hønd og leidde hañ heim, eñ a Vege þeirra var saa litle Skans, hvar Stickeñ laau a. Wolfgang fauñ miked uñ þetta, og kvad hañ vera Herra yfer Sioonum a þa Siidu Eyareñar, so hañ giæte varnad hvøriium einum Landtøku. Eñ sem þeir komu heim til Bæar, stansade Wolfg. miøg, og dæ dest ad hvørsu þar var allt fagurt og vel uñvendad. Hippolite geck ut a moote heim med bøndum siinum Børnum, og bad Wolfg. vera vel komeñ: Eñ hañ mællte til Berthold: Sañlega er eñ þa Bwsæll a Dræsum, þoott ad þessare Eyu bliide añad betra Nafn. Berthold kvadst alldre hafa kallad hana añad eñ þa Farsælu Eyu, og þvi Nafne skyllde hun hallda medañ hañ være a Døgum. Þar epter leidde Berthold hañ yfer Fiaar-Hlute siina, og sagde hønum allt hid ytrasta,

hvørsu

hvørsu hañ var þeirra Eigande ordeñ, eñ Wolfg. þookte mikels uñverdt, og mællte hañ være sañ-kalladur Einglands-Madur, sem syre Skip-Brot hefde hloted þvilijkañ Rijkdoom, og hefde nockrer sagt hønum þetta hiaa Good-rar Vonar Høfda, mundu Ofgar þopkt hafa. Og sem hañ hafde syndt Wolfg. sijn Aldine, Akra og Gierded sem þau miklu Dyr voru iñe, kom hiñ litle Gotthlijf hlaupande til þeirra, og kvad til reiddañ vera Middags-Verd. Berthold bad Wolfg. ad virda vel þad sem nu i Skinde hefde Matreidt vorded: Sijdañ settust þeir under Bord, Eñ Hippol. hafde Matbwed eiñ di, rañ Riett, so ad Wolfg. undradest yfer hvadañ þau hefde þvilijk Tilfaung i Ehde-Plaatse, þvi hañ kvadst ei hafa feinged jafn-goodañ Mat allañ þañ Tijma hañ var fyre utañ Evropam.

Wolfg. bad siñ Broodur Berthold ad uña sier fyre ærnañ Betaling nockurs til Hreßingar sijnum Moñum; Berthold broste og mællte: Pad sem eg hefe giefens af Gude þeiged, vil eg giarnañ þier aptur giefa, hvar fyre hañ baud Pienurum sijnum ad kalla nockra af Skip-Moñum, ad bera ut til Sioo-Foolksens Vijn og Vister, hvar vid þad vard miøg gladt, og drack allt uñ kriing uppaa Eyareñar Høfdingia Velferd.

Nu sem Wolfg. og Joseph høfdu loked þessu Starfe, sneru þeir heim aptur ad standa fyre Bordum, þa mællte Berthold: Miñ Herra Brooder! Mier var nærre ur Miñe lided, ad giefa mijnum Broodur til Vitundar, þad hañ er Fader vordeñ i siñe Fiærveru, þvi eg hefe skijrt heñañ Wolfg. epter hañs Nafne. Wolfg. liet vel yfer og einkum er hañ visse ad hñ hegdade sier vel og froomlega med þvi Nafne, og mællte: Med þvi ad eg hefe giørst þiñ Fader, so vil eg eiñeñ nær vier komustum i Evropam, giefa þier Fødur-Gaafu. Sijdañ spyr Berthold hvad laangañ Tijma þurfa mune til Skips-Adgeørdar? Wolfgang kvadst hafa boded sijnum Moñum ad forvitnast þar uñ. Berthold bad þeir nytte til Skips-Adgeørdareñar nockurt þad sem Gagnlegt vera kyñe i sijnum Vørslum, þvi añars

læge bad epter til Oniitis, hvar fyri Wolfgang hønum þackade. Hañ var nu allañ þeñañ Dag med Berthold og hañs Kviñu i goodum Fagnade, og fell hønum Hippolites Atgeørfe miøg vel i Gied, hvar fyri hañ sagde til Bertho.d; Eg er eñ un Ogyptur, og hefi nooga Feaarmune, Gud sie Lof, so mig vantar eckert nema eina gooda Konu. Oh! hvad farsæll væri eg, ef eg feinge slijka Gyptlng sem miñ Brooder feck, þo eg feinge ei eirn Skilding þar med. Hippolite þackade hønum þessa Gaman-Rædu, og mællte: Pañeñ hefur miñ kiære Berthold feinged mijn og teked mig til Egta, Jaa, bera og nakta, og hallded mig allt hijngad til betur eñ eg er makleg; Hvørt sem hañ nu frañveigis vill binda Enda aa Ord sijn ad elska mig, og allrei nockrn Siñe yfergefa, þegar hañ kemur heim i sitt Fødurland, hvar margar frijdar Kviñur munu kieppa uñ hañs mikla Audlegd, þa maa eg eiga þetta allt under Gude og Luckuñe. Berthold leit blijdlega til þeñar og mællte: O mijn kiæra Hippolite! Mijn einasta Huggun i Einsetu miñe, vertu þess fullviss, þoott eg Kost aa ætte ad faa eirnrar Kongs-Doottur i þiñ Stad, munda eg laata þad Ogeørdt, þvi þitt Trygdafulla Hiarta er mier svo kuñugt vorded, ad eg vil helldur deya eñ þig yfergefa. Hippolite kyste Hond hañs og mællte: So ser eg med glødn Giede burt af Eyu þessare, aa hvørri eg villde helldur vera alla mijna Æfe, eñ missa þañ sem mier er kærare eñ mitt eiged Lijf.

Nu sem þaug hættu þessu Tale, leid ad Aptne, took þa Wolfgang Ordlof ad gaanga burt til Mañna siña, og bwast til Burtferdar. Berthold geck aa Veg med sijnum gooda Vin, og bad hañ iñelega ad dvelia med sier þañ Tijma hañs Skip læge vid Eyuna, hvøriu Wolfgang lofade, og kom næsta Dags epter med sinnm Skips-Prestum, sem epter Bertholds Beidne skadfestin med Sidvanalegre Brudar-Wijgslu Bertholds og Hippolite Hioonaband, og blessudu yfer þaug Born og Villumeñ sem Berthold hafde skijrt, teiknande þaug i sitt Kyrkiu Registur.

Berthold og Hippolite voru nu yfred glød, og bjuggust

til Burtferdar, og allt þad þan villdu med ſier haſa til Ferdareñar, eñ Tijdeñ ſiytteſt miøg af Vinſamlegum Samrædum vid Wolfgang: Og ſem Skiped var Seglbwed a Siøtta Dege, bæru Meñ fyrſt uñ Bord þaug 4. Kopar-Sticke er ſtoodu a Skanſenum, ſijdañ ſo miklar Viſtier ſem vel þookte meiga nægia. Eñ Berthold liet bwa vel uñ þad er epter var, ſo ef þar kiæmu nockrer ſijdar mær, mættu þeir lifa þar vid. Þar epter liet hañ a Skip færa ſijna Fearmune, Gull-Sandeñ og hitt añad, eñ ſkilde þo nockud epter af øllu, og liet þar hia liggia Uppſkrift, hvørſi hañ uñ 10. Ara Tijma hefde þar lifad fyri Guds Naad.

Nu ſem allt var a Skip komed er hañ villde med ſier haſa, ſo ſem Skiøn-Kopp og Apakietterner, ſem þa voru ei utañ 4. epter: Droo hañ med Foolk ſitt wt af þeirre Farſælu Eyu, a Attunda Dege fra Wolfg. Þarkomu, og hleipte upp øllum Slagbrwnum ſem ædur voru: Eñ a þeim ytſtu Stoolpunum ſkar hañ þeſſe Ord i Eingelſku, Portugiſiſku, Hollendſku og Maleiſku Tungumaale:

" Hier a þeſſare Farſælu Eyu er eiru tryggur Stadur
" fyrer alla þa ſem lijda Skip-Skada: Gud hiaalpe þeim
" øllum er hijngad koma, ſo ſem hañ hefur hiaalpad þeim
" er hier var Sijdarſt uñ heil 10. Ar, og er Luckuſamlega
" apturkomeñ til Evropam, ſo hañs Nafne verde Dijrdeñ.

Berthold og Hippolite med ſijnum Børnum og Villn-Møñum ſellu a Kne, ſo ſem kyſſande Jørdena a þeſſare Farſælu Ey, og ſwngu þar med eiru fagrañ Loffſaung, og ad ſijduſtu bædu Gud uñ Luctu til ſyrihafande Reyſu. Sijdañ geingu þaug þangad ſem Wolfgang var fyrer, og beid þeirra, veitande þeim allgvodar Vidtøkur, og leidde þau a Skip. Eñ a medañ loſnudu øll Sticke Jñañ-Bords, var ſijdañ lypt Atkierum og lated i Haf: Eñ Berthold og Hippolite horfdu ſo leinge til Eyareñar ſem hun var i Augſyn, og køllndu. Haf Þøck þu hin Farſæla Ey fyrer allt þad Gott, ſem vid høfum af hier noted, og ver fraṁveigis gott Athvarf fyri Naudlijdande og Skipbrots Meñ.

Nu gaf vel Byr., og komu þeir brædt wr Landa-Syn, hvar næst Wolfg. liet sier umhugad vera, ad veita hid skörugleg asta sijnum Gestum: Hañ feck þeim þad besta Herberge a Skipenu, og liet eckert bresta a allt þad er þeim mætte til Pocknunar horfa: Og þoott hiñ litle Gotthlijf og Christiana, jafnvel sialf Hippolite, þyldu lijtt Siooeñ i Fyrstu, geck þad skiott til Batnadar: Og a Nijundu Viku komu þeir med Heilu og Høldnu fyre utañ nockurt Mootfall til Goodrar Vonar-Høfda, hvar þeir Brædur ner miñtust þess er til bar Fordum.

Þeir løgdu i eina gooda Høfn og stigu a Land til Hressingar sier, var þar þa fyre i Høfneñe Floteñ, med hvorinn Wolfg. hafde utlagt fra Batavia. Þesser urdu aller fegner er þeir kiendu hañs Sigling, hvørn þeir aller hugdu tapadañ. Vantade þa eñ 2. Skip, epter hvørium þeir villdu bijda i nockrar Nætur, hvar fyri þeim Brædrum gafst Tækefære ad taka sier Hvijlld og Hressing.

Berthold. thijte sier brædt þa sem hønum høfdu þar firre Gott giørdt, og Endurgaallt þeim nu Rijkuglega med miklum Fe-Giøfum, a medal þeirra var Dootter hañs Forna Hwss-Boonda, er hønum hafde audsynt mikeñ Goodvilia, hvørre hañ skeinkte til Brwdar-Gaafu 200. Ducata, og vard hañ Vinsæll fyre þetta Orlæte, so Borg-Meistareñ Stadarens gerrde hønum Heimbod og hinꝭ fegursttu Veitslu, uppa þad hañ mætte fregna hvad yfer Berthold hafde drifed, og sia hañs Hustru, er hønum var so sem af Himnum send.

Nu sem lidner voru 8. Dagar, bættust þau 2. Skip er vontuþu vid Flotañ: Byriudu þeir so aller sijna Heim-Ferd, og løgdu ut af Høfneñe med mikellre Skothrijd, þeim gaf vel Byr, so þeir med Heilu og Høldnu tooku Høfn i Hollande.

Wolfg. bad Berthold ad dvelia med sier med allt sitt Føruneyte, medañ hañ kallade sijne Reysu-Næde, eñ hañ þeckfest þad, og sat þar um̃ 4. Vikur i besta Yferlæte.

Wolfg. baudst ad fylgia hønum heim̃ i England, þvi hañ

hafðe ǽsett að hǽtta Siöv-Ferðunn og setiast uñ kyrt, þar hañ var vorðeñ vel Auðigur af Fe, þar gaf hañ Wolfg. sijna Föður-Gǽsu, sem hañ lofaðe 100. Ducata.

Siðan reystu þeir til Einglands, hvar Bertholð friette epter uñ Sistkin sijn, og voru 2. af hañs Brǽðrum ǽ Lijfe og 2. Systur, Öñur gypt, eñ hin yngre Ogypt, sem var 6. Ara, þa Bertholð foor þaðañ.

Þesse sogunðu miog sijns Brooðurs Apturkomu, hvørn þaug hugðu fyre laungu dauðañ, einkum þar hañ heimtaðe eckert aptur af þeim litlu Femunum er hañ hafðe epterskilið, og Systkineñ hofðu skipt sijn ǽ mille, helldur gaf þeim Stoor-Giafer. Hippolite giørðeſt eiñeñ Vinſǽl og velþockuð af hvørium Mañe.

So lifðu þaug nu, og unðu vel Hag sijnum: Bertholð keypte sier eitt fagurt Hws i Staðñum Lonðun, og eiñ prag tugañ Herra-Garð ut ǽ Lanðs-Bigðeñe. Hañs gooðe Vinur Wolfg. var nu og eiñeñ með hønum i gooðu Hallðe, og kyñtest brǽðt við Bertholðs yngre Systur, sem var friið sijnum og kurteys Ynges-Mey, 16. Vetra að Allðre; Rañ hønum miog Astar-Hugur til heñar, og foor þeirra Mǽla ǽ Leit við Bertholð, eñ hañ took þvi vel, og var bweð til þeirra Brwðkaups. Bertholð gaf Systur siñe i Heimañ-Filgiu 1000. Gyinees, og tookust Aster gooðar með þeim Hiooñum. Rieðe Wolfg. bað af að staðnǽmast þar, so hañ mǽtte niota Nǽvistar sijns gooða Vinar Berth. og hañs Kviñu. Joseph og Wolfg. voru eiñeñ með Bertholð, og vonðust brǽðt ǽ Siðu Evropǽiskra Mañe, eiñeñ giørðust þeir bleikare af Loptenu, og betre Aunðar eñ þeir ǽður voru. Bertholð feck þeim gooð Syp tu-Mǽl, gerðe þa vel ur Garðe, og sette fyre Umbods-Meñ yfer sijnu Jarða-Gootse ut ǽ Lanðenu. Sicǽlfur lifðe hañ vel og lyka leinge með siñe kiǽru Hippolite, og Enðaðe Lijf sitt i gooðre Elle: Og lyktar so þesse Saga af Bertholð.



Jñtak

# Jn̄tak þess Engelska Robin-
## sons hefur Profasturen̄
## Saal. Sr. Þorsteiñ Ketelsson
Sett i Epterfylgiande Vers.

1. Vertholð nockuð foor of fort.
Far hans Elldur klauf og Mar,
Herdtest aptur Higgiu-Port,
Hvar hañ Eyañ farsæl var.

2. Hitte hañ þar Happld neitt,
Hradt sier Nægter samañ batt,
Fridt þar Niju Ar og Eitt
Atte að korta Lijfs Framdraatt.

3. Hippolite heilnæmt Happ
Hlaut af Vertholð, Lijfs þvi naut.
Gyptest hønum, Hrigdeñ slapp;
Hraut Oyndið laangt aa Braut.

4. Med sijnum Nægtum (Nauð
varð lin,)
Nam að koma i Evropam,
Sijnum foor med Sooma-Vin
Samhuga i Amsterdam.

5. Englands til sijn færde Faung,
Faangade i Lundun Giæfu-Spraang;
Eingvañ þar hans Efen̄ laung
Angur fullañ hlaut Mootgaang.



